# I. Kapituli.

## Samtal Höfuds-mannsins Hra. Mildbergs og gamla Prestsins Hra. Andrésar um mannlegt líf.

Nikur edalmadur nockurr, Hra. Mildberg fór í úngdæmi sínu í hernad til framandi þjóda, og yfirgaf loksins herþjónustuna med Höfudsmanns virdíngu og nafnbót. Þanninn kom hann heim og bjó vel og lengi búi á gódri fasteign sinni ad Sælíngsdal. En þó hann væri efna-madur og hefdi jafnan gódar vista-nægtir, þordi hann valla, vegna fóta- bólgu og -veiki ad borda einn rétt matar af 10, þó bydust, ecki ad smacka vín og opt vard hann rúmid ad halda heilar 6 vikur út. Hann hafdi verid tví-giptur og med fyrri konunni eignast son, sem lærdi vid háskólann, og 1 dóttur. Þegar seinni kona hans var ólétt, fór hún ledursveitt óvorum út í kulda, og dó þaraf hastarlega. Þessi missir lagdist ofur þúngt á manninn, og þared hann nú var aleinn eptir, las hann gódar bækur, ellegar sat og yfirvegadi hvad eitt, sem hann hafdi sjed og heyrt í framandi löndum, vid hofin og í strídinu. Hann íhugadi líka allt sitt framferdi frá úngdæmi, og ydradist margs þarámedal, sem hann vildi nú ógjört væri. En loksins lendti þar alltaf vid í



þánka hans, ad allt manulegt líf væri einúngis éymd og volædi; og þegar honum leiddist úr hófi, lét hann sækja Prestinn sinn, ad nafni Andrés, sem var gamal ærurverdúgur og gráhærdur madur. Peir reyktu sér tóbaks-pípu og teluduſt vid um Tídindin, eda hvad sem vidbar, og Prestur vard um hvad eitt ad segja hreina meiníngu sína. En, ad venju, sneri Hra. Mildberg og svo rædunni til volædis mannlegs lífs, og sagdi: ad hvørt, sem madurinn væri ríkur eda fátækur, hár eda lágur, mætti hann berjast vid margt íllt. Til merkis nefndi hann fótaveiki sína, er qveldi hann svo sárt, ad hann med øllum sínum audæfum, gæti lítils góds adnotid, og marga nótt kjæmi sér enginn dúr á augu. Af lífi sínu øllu vid hofin, vid herinn og í tveimur hjóna-bøndum, taldi hann fram svo margt íllt, ad lystisemdir þær, hvørra hann aduotid hefdi, væru þará-móti sem eckért ad reikna. Hann kalladi og vitra Kónginn Salómon til vitnis, sem í Préd. b. 1, 14. segir: Eg leit øll þau verk, sem gjørd eru undir sólunni, og sjá! øll vóru þau hégómi og skap-raun. Parámóti framfærdi Presturinn: ad Gud hefdi þó skapad alltsaman harla gott. Lítid ad eins, Herra! sagdi hann, á fénadinn, sem leikur sér allt um kríng á ydar gardi; hvad hann er lystugur, þegar hann ecki brestur bjørg! fuglarnir í skóginum og á grundunum syngja af gledi: flugurnar súda, fiskarnir sqvetta og leika sér í sjó og vøtnum; þau minnstu qvikindi fara gladvær a skrid, þegar sólskinid er,

og

og gledja sig yfir lífi sínu. Hvørt mun þá Gud hafa mennina skapad, sem hann elskar øllum dýrum framar, einúngis til eymda og þjáninga? nei! verid vissir um, ad vegni oss mønnum midur enn dýrunum, erum vér sjálfir orsøk þess, því ecki hefir gódur Gud látid oss neitt þad vanta, sem til ánægju þarf. En — opt aukum vér á þær litilfjørlegu þjáníngar vér þola megum, þegar vér ímindum oss þær lakari enn þær eru, og íhugum ecki, ad þær ebla vort sanna gagn.

Høfuds-madurinn sagdi sídan frá, hvørsu hann um æfi sína þeckt hefdi margar þúsundir manna, sem allir hefdi illa ánægdir verid og leidir af lífinu. Kóngar og Furstar, tignar- og ríkis-menn hefdu jafnvel verid enn midur ánægdir, enn þeir litilmótlegustu og fátækustu, og lærdir menn einkum þarí lakari ólærdum. Þessu gat Prestur ecki vel neitad, því í raun réttri er þad satt, en á því stód hann alltaf fast: ad ef hvørr og einn í stétt sinni aldrei hefdist annad enn gott og rétt ad, gætu allir menn lifad í farsæld og ánægju; og svo vel tókst honum ad sanna þad, ad Høfuds-madurinn loksins vard ad samsinna honum. Af því, sem fylgir skulum vér sjá, ad Prestur og hafdi á sønnu ad standa.

Stundum var rædu-efni þeirra: ad allmarga þá menn mætti sjá í heiminum, sem misskanlegir væru, en þad, sem þeir eyddu, væri vel gefid ødrum; því opt hefdu mestu ónytjúngar og letimagar alls nægtir, þegar margur starfsamur borgari og bóndi ætti sárbágt. Høfuds-madurinn



inn var og margopt mótlættur af því, ad hann alla æfi hefdi átt af öllu nóg, en þó aldrei gjørt neitt, sem gæti ordid ad merkilegum notum fyrir adra. Prestur var med því, ad ydjuleysingjar ætíd væru skadlegir, en héldt ad þeirri ómennsku mundi linna, því heldur, sem upplýsíngu færi betur fram. En — ad í heiminum væru mørg og misjøfn stønd til, sagdi hann vera dásamlega niðurskipun og tilhlutun Guds. Stjórnendur, embættis-menn, hermenn, kénnendur, læknarar, kaupmenn, listamenn, handverks-fólk og bændur, ríkir og fátækir, yrdu ad vera hvørr medal annars, einn gjøra þetta, annar hitt, hvørr hjálpa ødrum, svo allir gætu lifad ánægdu lífi, og enginn sakna þurfa þess naudsynlega. Þannig ræddust þeir opt á med og mót þessu. En þared Høfuds-madurinn í úngdæminu mjøg svo lítid ígrundad hafdi mannlegt líf, hafdi hann ecki rod vid Presti. Hann fann þad líka sjálfur, ad medal annara var og sú orsøkin til hans sífeldu ángursemis, ad hann hafdi ecki úngur lært rétt ad þeckja tilgánginn, í hvørjum madurinn skapadur er, og réttu medølin til varanlegrar hugar-rósemis, því hugsadi hann sér nú: þad, sem þú áttir ad vita, skal sonur þinn læra, og lét þess vegna rækilega kénna honum, fyrst af duglegum kénnara heima, og sídan vid Háskólann. Og sem hann vissi vel, ad betra er sjálfur ad sjá, enn reida sig á annara søgusøgn, lagdi hann þad fyrir í Testamentis-gjørd sinni á banasænginni, ad sonur hans sjálfur rannsaka

skyldi

skyldi athafnir manna og orsakirnar, vegna hvers svo margir ecki verda luckusœlir, en ecki reida sig einúngis á ritgjørdir þar um.

## II. Kapítuli.

### Høfuds-mannsins Mildbergs fráfall og greftran, og ólucku tilfellid, sem þá vard kunnugt.

Angursemi Høfuds-mannsins Mildbergs héldst vid og gjørdi mikid til þess, ad hann vart lifdi missirid út eptir fráfall seinni konu sinnar. Þó dó hann, í raun réttri, af fótaveiki, hverri sló upp fyrir brjóstid einusinni þegar hann reid út til gamans í óhollu votvidri, sem lœknarinn hafdi þó bannad honum. Skømmu fyrir andlát hans kom sonur hans heim frá Háskólanum og veitti honum nábjargirnar. Hann syrgdi og þenna missir, eins og von var af gódum syni vid góds fedurs fráfall; því hjartgróin ást var á med þeim fedgum.

Þegar ad greftrunar deginum leid, skipadi Skólahaldarinn, sem bjó rétt vid kirkjuna, vinnustúlku sinni ad fara inní Herra-fólksins graf-komentu, sem var út úr kirkjunni ofan-jardar, til ad rœsta þar til. En hann gat med engu móti nuddad henni þángad, nema hann fœri sjálfur med. Hann géck hardt á hana um orsøkina; en lengi duldi hún hana, en þegar hann þrábeiddi ad hún segdi sér: hvad hún óttadist? og leitadist



skynsamlega við að sannfæra hana um það, hvörsu heimskulegt það sé, að hræðast dauða líkami, sagði hún honum loksins frá, að þegar hún, nóttina eptir að Frúin sáluga var grafin, kom af hendíngu út að kirkju, þeim meginn, sem grafkomentan var, hafi hún gløggt heyrt þar barið hardt, æpt og veinað, við hvað hún varð svo hrædd, að hún hljóp sem skjótast inn og uppí rúmbólið. Hann deildi á hana, að hún ecki strax hefði sagt sér til, en hún qvaðst orðið hafa svo dauðhrædd, að engu orði hefði gétað útkomið, og varla haft mátt til að komast inn og uppí; auk þessa hefði hún heyrt í úngdæmi sínu, að ef eitthvað heyrðist um nætur í kirkjugerðum, mætti ecki strax um það géta; þó qvaðst hún ásett hafa að segja honum þetta, ef hún optar eitthvað heyrði, til að færa honum heim sanninn, að draugar væru þó til, hvörju hann aldrei vildi trúa. En vegna þess hún eckért heyrði úr því, þagði hún um þetta, svo ecki væri að henni hædt fyrir fréttirnar. Skólahaldarinn hló nú líka að søgunni, og tók að telja henni trú um, að þetta væri einúngis hugarburður, og hjátrúarfull hræðsla hefði látið henni heyrast hávaða og skurk, nema þesshátar hljóð hefði borið fyrir annarstaðar að; en hún sór honum hátt og dýrt, að sér eldúngis ecki hefði dottið í hug ný-grafna líkið, hún eckért verið hrædd, þegar út géck, en vafalaust þetta heyrt, og verið viss um, að hávaðinn var í graf-komentunni. Skólahaldarinn gat ecki skilið, að nockur náttúrleg orsøk væri til

þessa,

þessa, en hugdi þó stúlkuna segja satt, og grunadi því, þegar hann vandlegar gaumgæfdi þetta, ad Frúin, sem hastarlega dó og var ædi fljótt þar eptir grafin, hefdi máské ad eins synstdaud, fallid í aungvit, en raknad vid aptur um nóttina. Hann fór þess vegna í kyrrþey til Prestsins, og sagdi honum frá allri sögunni og grun sinum. Prestur óttadist, ad, ef stúlkan segdi satt, mundi allt of mikid varid í grun hans; en til ad komast ad raun hér um, skyldi hann bidja hann únga Hra. Mildberg, ad láta ljúka upp kistu stjúpmódur sinnar. Þetta var nú og gjært, og Herrann fór strax med Lækninn, Prestinn og Skólahaldarann, og lét sjá kistuna upp. En hvørsu rak þá í stans, þegar þeir fundu allann hjúpinn umsnúinn, og líkid Frúarinnar sálugu svo lagad, ad allt of berleg sáust nú merki þess, ad hún hafdi raknad vid, reynt til ad brjótast út, í þessari neyd og ángist fædt barnid, og var sídan hjálparlaus útaf dáin.

Fregnin um þessa miklu ólucku, flaug nú skyndilega um borgir og bæi; allir, sem tilþecktu, grétu og hermudu sárt, ad sú góda Frú hefdi fengid svo hriggileg æfilok. Gamli Presturinn grét eins og barn, og minntist aptur á greinina, sem hinn sálugi Herra vitnadi einatt til: **Eg leit øll þau verk, sem gjørd eru undir sólunni, og sjá! øll vóru þau hégómi og skapraun.**

Sjálfur hafdi hann stiptad þetta hjónaband, því sú sáluga var dygda-stúlka, en svo fátæk, ad

hún munadarlaus vard ad þyggia ølmusu=braud hjá ættingjum sínum. Í hjónabandi vegnadi henni vel; Høfudsmadur Mildberg unni henni mjøg, sękum dygdar og sidgjædis hennar. Þad gladdi gamla Prestinn hjartanlega, en hrigdi nú eins sárt, ad þessi óluckulega kona hreppti svo aumkunarverdann daud=daga. Sonurinn var svo óhuggandi út af þessari ógæfu, ad hann vegna sorgar eckért var mønnum sinnandi fyrstu dagana, því stjúpu sína elskadi hann meira enn mørg børn elska egin módur þeirra, og hún umgéckst hann eins ástúdlega og einka son. Þó gat Presturinn, hvørsu mjøg sem hann sjálfur syrgdi midt í huggunar vidburdum vid hann, loksins komid honum til ad endurnæraſt aptur á mat og dryck. Jafnvel qvøldid sama, sem fadir hans var grafinn, taldi hann syninum trú um, medal annars: ad Gud líklega hefdi látid þessa miklu óluckuhenda, svo ad hann og allt nágrennid skyldi því betur hér eptir varast, ad grafa nockurn mann fyrri, enn efunarlaust væri ad hann sé fullkomlega daudur; því, sagdi hann, svo hagar því einatt vor gódi himneski Fadir, ad ein ólucka hendi, ecki til ad refsa þeim mønnum, er hún fyrirhittir, heldur til ad vara hina vid, ad þeir í annad sinn fordist óluckuna. "En med hvørju verdskuldadi mín "góda og rádvanda stjúpmódir," spurdi sá úngi Hra. Mildberg, "ad svo skélfileg ólucka skyldi "henda hana eina hér í sókn?" — Gáid Þér ad Ydur, Hra. Mildberg! ansadi Prestur; Gud er allt eins vitur og hann er gódur til. Þér vitid, ad

ad bænda-fólks kistur, grafast djúpt í jördu, og mold er svo hardtrodid ofan á þær, ad enginn gétur heyrt hvad í þeim ber vid; enginn veit því, hvørt nockurr í þeim eda enginn, raknar vid í grøfinni. Í Herra-fólks greftrunar-húsum, gétur þetta betur heyrst, og því hefir Gud leyft þenna tilburd. Mig hryllir vid ad hugsa til þess, ad máské fleiri enn færri sóknarmenn hér, kunna allt eins ad hafa verid qvik-settir. En—Gudi sé lof og þackargjørd, ad nú lukust upp á oss augun! þad skal Ydar huggun, Herra minn! ad Ydar sæla módir, sem var svo gód og gudhrædd kona, gledst nú máské á himnum af því ad hennar sídasta hørmúnga-stund hér á jördu, kann ad géfa mønnum þá hugvekju, ad fleiri manneskjur hér í sókn, og máské í øllu landinu, verdi hér eptir verndadir frá vidlíkri ólucku. "Og hvørninn á ad því ad fara?" spurdi Hra. Mildberg. Þad er eptirþánkaverdugt, ansadi Prestúrinn, en nú høfum vid ecki tóm til þess, því líkfylgdin bídur ockar.

Þeir fylgdu sídan í allri kyrrþey líki þess sáluga Herra til greftrunar-hússins, og skildust sorgbitnir ad.

## III. Kapítuli.

### Af skada verda menn hyggnir.

Daginn eptir, þegar búid var ad lagfæra lík Frúarinnar sálugu, og setja kistu þess sæla

 Herra



Herra á milli beggja Frúa háns, eins og hann sjálfur hafdi fyrisagt, géck Prestur til ens únga Hra. Mildbergs og rádgadist um vid hann, hvørnig þvi yrdi varnad, ad nockurr framvegis yrdi qvíksettur. Um leid nefndu þeir ymisleg ólucku tilfelli, hjá hvørjum komast mætti med varfærni og adgætslu, edur med annara hjálp bjargast úr. Þeir aumkudu bádir mikillega almúga-fólk, sem í þeim kríngumstædum yrdi einatt fyrir stórskada, einúngis af því, ad þad engin rétt hjálpræðis medøl þeckti eda úrrædi, og þó einkanlega søkum óvildar og módleysis ad þeckjast góð rád og reyna nýkénnd medøl, sem forfedur þess ecki báru skyn á. Unga Herranum Mildberg datt þá líka í hug, ad nýlega væri útkomin bók, sem héti: Nýjasta Bænda Praktika, hvar í mørg rád væru ad finna í ólucku-tilfellum, sem mæta kynnu mønnum og skepnum. Þessa bók féck hann sér, og leitudu þeir bádir í henni ad rádum til ad varna qvíksetníngu, svo hvørr og einn mætti vera viss um, ad þeir grøfnu røknudu ecki vid í grøfunum; þeir fundu og bædi þetta og márgt annad, sem Prestur héldt sóknarmønnum sínum vera mikilvægt og gagnlegt. Því rédu þeir af, ad kalla þá saman´ Kennnu sídar, og fyrst ad lesa þeim kapítulann um greftranir, og reyna med því móti hvørt þeir gódu menn girntust ad vita meira úr bókinni. Presturinn Hra. Andrés, var og laungu ádur vanur ad koma á almúga fundi, þegar rádgast þurfti um almenn-

lugs

ings gagn og naudsynjar, og vard allt fólk fegid þvi; hann var madur gódur og reyndur, sem opt gat rádid vel úr vandrædum, og med vinsamlegri umgengni haldid á einingu og fridsemd manna á milli, þó margt þrætu-efni mæta kynni.

Nú géck hann fram fyrir töluverdann hóp húsfedra, og héldt svolátandi rædu:

## IV. Kapítuli.

Presturinn Hra. Andrés, heldur rædu fyrir sóknar-mönnum ad Sælingsdal, um ólucku tilfellid med Mildbergs Frú.

Astkjæru vinir!

Vor úngi Húsbóndi, Hra. Mildberg, hefir skipad mér nefna vid ydur nockud sin vegna, sem þér, af ást til hans og ydar sjálfra megid vera fúsir á ad framqvæma. Allir vitid þér, hvílík ólucka þad var, sem, því midur! gjörir nú módur hans sálugu æfilok svo aumkunarverd og hriggileg. Sérhvörn, sem nockurr kristinndóms og mannelsku-neisti finnst hjá, hryllir vid ad hugsa til þeirra. Þó er enginn ydar óhultur um, ad ecki reidi honum vidlíkt af, ellegar ad hann óvitandi qvíksetja kunni, konu, börn, födur, módur og bestu ástvini sína, ádur enn þeir eru fullkomlega daudir, og þá mega þvílíkir deyja miklu aumkunarlegri dauda enn flestir óbóta-menn.—



Géfi þad Gud, ad þetta aldrei framar beri vid vor á medal! Þér sjáid þó af dæmi Frúarinnar, ad megulegt er þad. Eg vona því svo góds til ydar, ad þér fúslega takid þeim heilrædum, sem Hra. Mildberg lætur mig nú géfa ydur, til ad koma í veg fyrir svo stórkostlega ólucku framvegis. "Ojá! Hra. Andrés minn gódur!" sagdi Hreppstjórinn Hrómundur, "gjarnan skulum vér því "tilkosta, sem getum, svo ad vér ecki verdum sek"ir í svo mikilli synd og ólucku." Hér kémur ecki til nockurra útláta, Hrómundur sæll! ansadi Prestur, en einkanlega rídur á því, ad grafa engann of-snemma, og ad enginn verdi hafinn út, sem lík, fyrr enn óefandi sé daudi hans, svo þad gjøra megi med gódri samvitsku.

"En, hvørr gétur lagt þad á samvitsku sína?" sagdi einn sóknar øldúngurinn, "því ecki høfum "vér vitsmuni til ad ábyrgjast, hvørt nockur mann"eskja er fulldaud eda ecki; og þó læknarar hafi "greind á því, er lángt og erfidt þeirra ad leita "í hvørt sinn, enda gjøra þeir menn fátt óborg"ad, en nógu þúngt veitir, ad standa annann "útfarar køstnad." Satt segir þú, kunníngi! eckért má þetta kosta frændur ens dauda, sem nóg hafa armædst og haft fyrir honum veikum; en þessu er svo varid, ad hvørr og einn skynugur húsfadir, gétur athugad allt hvad þarf, og frelsad samvitsku sína, taki hann gódann vin til ráds med sér og fylgi þeirri fyrisøgn, sem eg nú vil kynna ydur. Hún stendur í bók, sem hann Hra. Mildberg kom med frá hefudstadnum. Í henni

eru nockrar fráſegur og mørg ráđ í vandrædum; hún heitir: nýjaſta Bænda Praktika. Þar er og ad finna ſkilmerkilega útliſtun þeſs athugaverdaſta, ſvo ad engin manneſkja verdi qvikſett, ádur enn deyr. Sóknarmenn girntuſt nú ad heyra þeſſa fyriſegn, og Preſtur tók ad leſa:

## V. Kapítuli.

### Preſtur les fyrir bændum forſkriftina úr Bænda Praktíka, hvad gjøra ſkuli til ad afſtýra qvikſetningu.

Þeſs eru, því midur! allt of mørg ſorgleg dæmi, ad menn hafa qvikſettir verid, ſem ecki vóru full-daudir, en féllu ad eins í þúngann ómeginn edur aungvit. Sá er ecki ſtrax daudur, ſem ecki heyrir, ecki ſjer, ecki bæriſt ellegar dregur anda. Hann gétur ordid nákaldur og ſtyrdnad, og verid ſamt med øllu líſi. Jafnvel bláum blettum gétur ſlegid út um líkamann, og augun kunna ad vera broſtin þó manneſkjan ecki ſé daud. Svo feikileg aungvit vilja til, þegar hjartad hættir ad hræraſt, ſvo vart verdi vid, og umrás blódſins í ædunum ſtemmiſt um tíma. Þó er engin manneſkja þar fyrir daud, en þá fyrſt verdur þetta med viſſu ſagt, þegar hér og hvar um líkamann, ſýna ſig augljós rotnunar-merki. Þad ber og óptar vid á úngu fólki enn gømlu, ad þad ſýniſt ad vera daudt, en er þó ecki. Þó veit eg þeſs dæmi, ad ſjøtug kona raknadi vid

aptur

aptur eptir 2 daga, og var þá búid ad hjúpfæra hana. Tengda-sonur hennar ætladi ad hjálpa konunni, sem utan um hana saumadi, til ad kistuleggja hana, og beiddi konan hann ad taka hana upp á þumal-tánum, þared margir hafa þá heimskulegu hjátrú, ad daudir gángi þá ecki aptur, þegar svo er adfarid. Þó nú alls enginn, sem fullkomlega er daudur, géti gengid aptur, lét madurinn þó eptir bón hennar. En hvad skédi? gamla konan reis upp og rétti út høndurnar eptir tengdasyni sínum, sem af skélfingu hné nær því ad jørdu. Sidan lifdi hún enn þá fulla 3 daga, unz hún dó til fulls. Þessi kona hefdi því ordid qvikksett og rafnad vid í grøfinni, hefdi hún verid øssnemma grafin.

Þeir venjulegustu sjúkdómar, sem þanninn géta svipt mann øllum skilníngar-vitanna krøptum og leidt í svo megnt aungvit, ad daudur sýnist, eru: sleg og nidurfalls-sóttir, blódlát, svefnsýki, módurlífs-sott, pest. Sømuleidis, þegar mædur eda børn deyja vid barn-burd, eda strax eptir hann, ellegar módir deyr med ófædt barn, sem enn kann ad vera lifandi; því nóg eru þess dæmi, ad í andvana fædd børn hefir mátt tjarga lífi, já! læknarar frelsa á stundum ófædda, med því ad skéra upp daudar mædur þeirra. Margir drucknadir, hengdir, kjæfdir af kola- og ødrum reyk, ellegar eldingum lostnir, helfrosnir, þeir, sem deyja af hrædslu eda gledi, rotadir, hrapadir, þeim, sem blædir til ólífis af sárum, lida einúngis í aungvit, og því ega menn ad kosta kapps um,

um, ad endurlífga þá. Einkum skal vareygdarsamlega fara med aungvitagjarna.

Rotnan líkamans, sem er einasta óbrygdult og vísst dauda-merki, þeckist einkum á þessu:

1.) Á þeirri alþecktu nálykt.
2.) Á alls líkamans, einkum qvidarins lopalega uppblæstri.
3.) Á þeim blágrænu svo nefndu lík-blettum, sem og fyrst sjást á qvidnum.
4.) Á flegnun ytstu húdar og hörunds líkamans.

Undir eins og öll þessi kénnimerki verda samfara, er öldúngis vísst ad manneskja sú er daud, en fyrri á heldur engann ad grafa, vilji madur ecki egna mót sjálfum sér þau bríxli nagandi samvitsku, máské ad hafa qvikfett medbródur sinn.

En svo ad enginn verdi framar grafinn, fyrr enn þessi merki eru augljós, þá ber

1.) Hverjum húss-fødur, sem ecki vill verda manna mordíngi, sjálfum ad adgæta, ad eckért lík sé hafid út úr hans húsum, fyrr enn þau öll sjást.
2.) Svo ad menn ecki med vangætslu svipti sjúka menn lífi, ádur enn víss dauda-merki sjást, má engannveginn taka koddann undan høfdum þeirra, sem komnir synast ad andláti. Þetta er þó sumstadar gudlaus vani, því margur, sem hæglega hefdi raknad vid aptur til lífsins, hefdi hann mátt halda koddanum undir høfdi sér, deyr af missir hans, vegna þess, ad flestir sjúkir ega erfidara med andardrátt, þegar þeir liggja flatir, og hins,

ad



ad blódid sækir þá ódum til høfudsins. Dæmi eru og til annars skammarlegs ósids, nefnilega: ad dreypa drjúgum áfengum dryck á þann, sem er ad deyja, ellegar undir eins og hann hefir gêfid upp øndina; en hvad kann þó ad vera grimmhjartadra? hvad kann fljótar og vissar ad drepa útaf þann sjúka, þann deyjanda, þann, sem ad sønnu virdast kann daudur, en annars hefdi máskê raknad vid úr aungviti, enn svo banvænn hlutur, sem ølsaung og áfengir dryckir þá?

3.) Jafnvel þó hinn sjúki sýnist full-daudur, á þó ecki strax ad taka hann úr rúminu, og á vetrum flytja hann í kaldt einhýsi, en hann á í fulla eykt, eda hêr um 4 kluckustundir, ad liggja í rúminu vel þakinn.

4.) Verdi nefid á medan smámsaman mjórra, gagn-augun innfallin, augun søckvi djúpt inn í høfud, eyrun køld, húdin á enninu hørd og útþanin, og liturinn døckni eda bleikist, þá má ad 4 kluckustundum lidnum leggja líkamann útréttann á hey ofan á bordi eda fjølum, en bída þó med greftrun, uns ádurgreind rotnunar-merki vottast.

5.) En—líti líkid enn þá nockurnveginn eins út í andliti, eda sê madurinn hastarlega dáinn, má ecki taka þad ad sinni úr rúminu, fyrri enn granskodad er, hvørt eckert lífsmark finnist, og enginn vegur sê til ad endurlífga þann dauda, er vêr svo høldum; því skal hvørki vísa burt læknurum eda ødrum,

sem

sem vit kynnu á ad hafa, þegar menn halda þann sjúka lidinn, en kalla þá miklu heldur til ransóknar, hvert viss dauda-merki sjáist nockur, og sè eki þará, reyna hin líklegustu hjálpræðis medøl. Gagni þau eckért, skal þó bída med greftrunina, uns rotnunar-merkin sjást, þó dragast kynni nockra daga. Þad væri gódur vani, ad láta skynuga menn skoda þessi rotnunar-merki á hverju líki, ádur enn leyft væri ad kistuleggja.

6.) Nei! aldrei fyrri enn þetta væri skodad, ætti nockrum leyft vera, ad kistuleggja lík, og enn sídur ad negla kistuna aptur, ádur enn viss nálykt er af því komin. Þess væri og øll þørf, þó vissar konur, vel mentadar um ó-bryggdul dauda-merki øll, væru tilsettar í hverri sókn, til þess ad þvo, og sídan, þá daudinn er ósefandi, ad hjúpfæra og kistuleggja líkin.

7.) Væru þessar reglur allstadar vandlega adgættar, þirfti aldrei ad óttast fyrir qvikksetningu, og ecki ad skéra þá daudu á háls, þá kistuleggjast, sem margir vitrir menn hafa þó til vareygdar rádid til, og sem daudum er tilfinningarlaust, en skin-daudum kistulsgdum sannur velgjørningur, heldur enn ad qvik-setiast; þó ætti aldrei hálsskurdur fyrri ad leyfast, enn búid er ad kistuleggja, eptir øll rotnunar-merki fundin og adgætt af fleiri skynugum mønnum, vidstøddum á medan.

B VI.



## VI. Kapítuli.

### Hvad gjøra skuli vid manneskjur, um hvørra dauda ecki er fullvist. (af Bænda Prakt.)

Hvørr, sem í sögdu efni, vill vardveita góda samvitsku, á ad breyta eins og nafnfrægur læknir nockurr einusinni gjørdi: Hann var sóktur til Herramanns, sem lá sjúkur í taksótt, en kom ofseint. Allt var þegar búid til greftrunar þegar hann kom. En þegar Læknirinn leit þann dauda, þókti honum hann ecki líta svo út, sem væri hann fullkomlega daudur. Hann lét þess vegna leggja hann strax í heitt rúm, lét setja honum blód-horn á brjóstid, milli herdanna og á lærin. Hann lét núa allann líkamann med grófum, heitum, einir-reyktum prjóna-saum, og þegar maginn var núinn, þrýsti hann honum hægt og hægt upp ad brjóstinu. Þar ed þetta vann eckert á, lagdi hann spansflugna plástur bak vid eyrun. Undir iljarnar lét hann leggja heita múrsteina og núa þær upp med snerpum bursta, þess á milli. Smámsaman tók lífs-mark ad sjást med manninum. Nú lét hann halda volgu braudi undir vitum hans og hellti nockrum spónblödum uppí hann af volgu vatni. Honum rann þá nidur og augun lukust upp. Bædi þau og gagnaugun var ádur búid ad þvo upp úr víni. Þar eptir gat hann sagt frá ymislegu, sem talad var, og hann heyrt hafdi í aungvitinu, þó hann þá hvorki gæti talad ellegar hreift legg eda lid.

Lækn-

Læknirinn hjálpadi honum þannig til heilsu á ný, svo hann lifdi þar eptir full 10 ár.

Líkt fór og einusinni med Kaupmanns-konu nockra. Madur hennar kom heim úr lángferd fáum dögum eptir þad hún framleid, rétt í því bili ad hana átti ad grafa. Hann elskadi hana svo heitt, ad hann bar sig nú hörmulega. Honum féll þad inn ad draga greftrunina nockud, láta slá kistuna upp og gánga úr skugga um, ad hún væri fullkomlega daud. Þess vegna lét hann vída um kropp hennar gjöra smá skinnsprettur med beittum knífi og setja þar á blódhorn. Forgéfins höfdu henni nú sett verid 25 þvílík, en vid þad 26ta reis hún upp og qveinadi: æ! því qveljid þid mig svona! Hún lifnadi sídan vid algjörlega og vard fullfrísk.

Af þesshâttar dæmum mætti vel telja fram fleiri enn hundrad sönn og viss, sem kristilega sinnadir Læknarar og Yfirvöld hafa uppteikna látid og auglýsa til vidvörunar, svo ad ektamenn verdi ecki mordíngjar qvenna sinna, konur bænda sinna, foreldrar barna, börn foreldra, og hvørr vinurinn annars af vanvitsku og ræktarleysi.

Nú hafdi Prestur útkesid í bókinni um þetta efni, en bætti þó siálfur enn þá ymislegu vid. Nockrir af greinduslu og virdtustu bændum budust strax til, ad skoda hvørt lík í sókninni ádur enn kistulagt væri, og adgæta öll framantalin dauda-merki, líka nær sem færi gæfist á og ecki vonarlaust væri um líf, ad reyna þau hjálprædis medöl, sem gætu, en allir undirgengust samegin-

 lega



lega, til frelsis gódri samvitsku og mannordi sínu, aldrei ad láta nockurt lík kistuleggja, fyrr enn granskodad væri af greindum mønnum.

Sóknar-menn þockudu Presti med øllum virdtum lærdóms- og varúdar-ríkann lestur, en beiddu hann þó ad lesa þeim nockur smástycki úr bókinni fleiri, þar albjart væri enn, og hvergi framordid, en vedrid gott, héldt hann því fús áfram ad lesa.

## VII. Kapítuli.

### Um Greftranir.

Svo mikillar varúdar, sem þad verdugt er, ad qvikssetja ecki medbrædur sína, svo er engu minna athugaverdt um sjálfa greftrun þeirra daudu. Sé hún midur vøndud enn skyldi og gjøriſt annarstadar enn ber, má hún jafnvel olla enn meiri skada og tjóns, nefnilega: banvænna sjúkdóma og þar af leidanda mannfellirs.

Naudsyn krefur, ad lík manna leggist í jørdu, bædi til ad varna vidurstygd af þeirra rotnandi hræum, líka og til ad verja lønd og stadi, bygdir og bæi drepsóttum af þeim banvænu dømpum, er af þeim leggja og útdreifast; en þad er, því midur! argur og ólídandi ósidur, sem ofmargir Prestar og Forsvars-menn kirkna hafa lengi sjed ígégnum fingur med, ad líkin allvída grafast of-grunnt, og grafirnar trodast laust og illa. Þessi ósidur er því háskalegri, sem hjátrú-

ar-

arfullur vani hefir heldur valid greftrunar-pláts framlidnum kringum kirkjur, hvar fjøldi manna opt kémur saman, og flyckist um leidin í hitum, já! eg voga ad segja: ad fleiri enn færri sœkja þángad, sem grunnt er grafid vid kirkjur, margvíslegt heilsuleysis-, sjúkdóms- og dauda-efni. Þad er því øll þørf á, ad áminna og upplýsa hlutadegendur um naudsynina ad gæta skyldu þeirra med vel vandada og fulldjúpa greftrun framlidinna, og undir eins um, ad sérhvør yfirsjón og tilhlidran í þessu efni, má verda dauda-mein margra, í hvørju enginn kristilega sinnadur madur, og allra síst Prestur safnadanna med hyrduleysi hér um, vildu líklega þurfa sekir ad finnast. Já! øll þørf á ad flytja kirkjugarda afsídis frá kirkjum, hvar fólk ecki hefir erindi ad safnast, nema þá grafid er. Og hvad skal eg segja um þann hjátrúarfulla, þann heimskulega og þann banvæna ósid, ad grafa lík í kirkjum, einkum meiriháttar manna? hann vottar á ný Salómons ord: Eg leit øll þau verk, sem gjørd eru undir sólunni, og sjá! øll vóru þau hégómi og skapraun. Þar, einkum þar, hvar søfnudur manna ýduglega orsakar mikinn hita í litlum húsum, og auk þessa sjálfur hefir medferdis óholla útdømpun, þar mega dampar, er uppstíga af rotnandi líkum, verda tvøfaldt skadvænir; já! verda pestnæmir. Hvørs vegna velja menn þá framlidnum svo óhæfilegann, svo háskafullann greftrunar-stad? máské af hjátrú heimskra, ad þeirra sálum skuli betur vegna,

hvørra líkamar hvíla innan kirkjunnar vebanda? O! því grafast þá ecki allir þar, fyrst allir girnast jafnsælir ad vera, og eru þartil eins bornir? máské til ad ødlast ødrum meiri virdingu daudir, af innigreftrun? Æ! hvørsu tóm, hvørsu einkisverd og eckért er sú virding, er þessum framlidnu þar med veitist? mun hún ein nockud tigna þann sundur-rotnanda kropp, vid hvørjum alla skynsama hryllir, er til hans muna því optar, sem hann heldur liggur inni? muna til ens dauda eda náúnga hans hégómaskapar, hjátrúar og fávitsku í þessu efni? O madur! sem svo ert lángt kominn á upplýsíngar, kristinndóms og bródurlegs kjærleika vegi, ad megnar ad skynja hvørsu fánýtt, hvørsu eckért, sú ímindada fremri farsæld eda virdíng af inni-greftrun er, gjør ecki ást þína enda-sleppa vid med-brædur, girnst ecki ad vera þeim í Guds húsi til vidbjóds og ásteytíngar daudur, sem þú elska vildir og adstoda lifandi; vit fyrir víst, ad sá, sem ecki heidrar moldir þínar úti jardadar, og þar, ef vill, sæmdar verdugum sóma minníngar merkjum, hallmælir øllu heldur þeim og þinni minníngu, þó inni súnir, og hrædst ad vilja med þínum rotnanda pestnæma líkama drepa eda veikja þann søfnud, sem þér ecki lengur endtist líf til, annadhvørt ad styrkja eda skada! því framar, sem þú í lífinu elskadir hann, því ótilhlýdilegra er þér ad fráskilja þig hans reglulega hvíldar-reit úti, eptir daudann. Þér, sem ecki þókti vanvirda adlifa í samfélagi hans, þér á síst ad þykja minkun

ad

ad hvílast daudur í hans samvistum. Gjör honum gott medan þú lifir, gjör honum ecki heldur íllt eptir daudann, med segdum hætti! hann virdti þig lífs, hann skal og öllu heldur virda þína minníngu og blessa þínar útiliggjandi moldir, hvört sem eru í kristinna reitum eda á vídavángi, hvad allt má þér, ef upplýstur ert og kristinn, jafn-rótt og -kiært vera.

Hér þagnadi Prestur; bændurnir qvádust fella sig vel vid þetta, og undrast, ad Prestar hefdu svo lengi umtalslaust lidid þenna ósid, sem máské væri nú vída ordinn margra bani. Vitanlegt er, sagdi Hrómundur, ad legstadurinn gjörir lítid til velferdar vorrar eptir daudann. Gud útbýtir henni einum og sérhvörjum eptir nád og athöfnum vorum, en ecki eptir þeim stad, hvar líkaminn fúnar eda eydist, hvört heldur í vígdri eda óvígdri jördu, úti eda inni, á landi eda í sjó, ellegar brennur upp til ösku; hvad um hann lídur eptir daudann, má sérhvörjum upplýstum manni jafnkiært; og Gud vardveiti mig og mína frá því, ad vilja med hjátrúarfullum heimsku-grillum láta minn dauda líkama rotna inni, til heilsuspillirs eda bana mínum medbrædrum! Allir tóku nú undir sama, og beiddu Prest ad lesa enn þá eitthvad fródlegt áfram í bókinni.

---

## VIII. Kapituli.

### Prestur les, hvørnig fara egi med mann-eskjur, sem synast helfrosnar.

Frednar manneskjur eru opt, þegar þær hafa ecki legid mjøg lengi úti, ecki fulldaudar, heldur styrdnadar, kaldar og lidnar í aungvit. Þær má opt þýda og endurlífga, sé vareyngdarsam-lega adfarid. Svo bar þad vid einusinni, ad bóndi nockurr á Kølldukinn, sendi tvo sonu sína á vetrardag, í kulda miklum og ófønn, til sjóródra, þíngmannaleidar veg. Heyrid, pilt-ar! sagdi hann, gángid þid friskann, en dreckid eckért brennuvín á leidinni, þó yckur bjódist! þad gjørir yckur eckért gott, heldur orsakar slen og þreytu í kulda, og hvørr, sem kénndur setst þá nidur til hvíldar, helfrýs ad vørmu spori; þad er margreynt. Bordid heldur, ef fáid, súrt skyr, eda dreckid kalda syru, sem vermir og styrkir í kulda, eins vel og øl, þegar røsklega er sídan gengid. Mikael, sem var eldri, gjørdi sem fadir hans baud, og yngri sonurinn Hans, á medan þeir urdu samferda; en þegar þeir skildu, og héldu hvørr ad sinni veidistødu, snatt-adi Hans heim á fyrsta bæinn, sem hann sá, qvaldi þar út brennuvín á merkur-fløsku, drack sig kénndann, gafst upp af þreytu og sleni, settist nidur, sofnadi og gaddfraus um nóttina, því frost var hardt. Morguninn eptir fannst hann gaddfredinn skammt frá bæ. Madurinn, sem

fann

sann likid, fór med lausann hest, batt þad ofaná hann, og ætladi heim á nærsta bæ, en þegar fyrir-rádandinn þar sá hvad hann reiddi, fyrirbaud hann honum þar øll hús og lód, og lokadi bænum. Madurinn beiddi hann miskunar fyrir þann dauda, og mót betalíngi ad ljá sér hús og rúm fyrir hann; en þess var ecki kostur. Hann héldt því áfram til nærstu bæa, því þéttbygd sveit var þar, og þar fór eins. Loksins hitti hann fyrir skynsamann, gudhræddann mann, sem minntist fráságunnar i Gudspjallinu um þann miskunsama Samaritan, og þess, er vor Frelsari um hann sagdi. Hann lédi þeim helfrosna hús, og sókti nábúa sinn, Skólahaldarann, sem bar gott skyn-bragd á þvíumlik tilfelli. Hann kom rétt í því þeir ætludu ad draga þann helfrosna inn í heita badstofu til ad þýda hann. Fyrir Guds sakir, gjørid ecki þetta! hrópadi hann; þid drepid manninn útaf med því, sé hann ecki steindaudur! hann lét því í mesta skyndi moka saman snjó inní hitalaust útihús, hvar þó ecki var sárkaldt, framundir hálfa alin á þyckt, afklæda þann helfrosna nakinn, lagdi likamann sídan ofaná snjó-dyngjuna, og þakti hann allt um kríng med snjó, hér um 4ra fíngra þyckum, þegar vel var allstadar þjappad saman. Hvergi var aud hola, nema litil ein yfir munni og nasaholum, og þegar snjórinn tók hér og hvar ad brádna, lagdi hann nýjann snjó þar ofan á aptur. Fólkid á bænum vildi í fyrstunni ecki lida Skólahaldaranum þetta, hló ymist ad honum ellegar sagdi: ad væri mad-

urinn ecki helfrosinn, yrdi hann þad nú brádlega af þessum kulda. Fregnin um þetta tilfelli barst strax til Prestsins, sem bjó ørskammt þadan. Hann greip strax hatt sinn og staf og skundadi þángad, sem likid var. Hann skodadi vandlega og hrósadi mjøg adbúnadi øllum og adferd Skólahaldarans, og qvad hann breytt hafa sem skynsamann ærumann. Því, sagdi hann, reyni þad húsmædur, sem vilja, ad taka, til dæmis: fredinn blautann fisk eda silúng, brytji hann í tvo hluti, og þýdi annann partinn vid eld, en hinn í iskøldu vatni úr læknum, og sjódi báda parta sídan í sama potti; þá mun vatnsþýdi parturinn verda fastur, samheldinn og allt eins gódur ad lit og smeck og hann ecki hefdi frosid, en hinn, sem þýddur var vid hita, missir bædi lit, smeck og alla samfestu, og allt eins er med þetta; á frednum likama gjørir meiri vatns- eda snjó-kuldi góda verkun, en hastarlegur og mikill hiti orsakar, ad þeir likamans partar, sem frostid hefir samanherdt, spennast allt of-fljótt og hardt út aptur, og loda ecki lengur saman. Blódid, sem þýdnar í frednum kroppi vid hitann kémst í alla óreglu þegar hitinn spennir allt hastarlega í sundur.

A medan Prestur rædi svo fyrir bæar-fólkinu, sem stód móts vid Skólahaldarann vid snjóbýnginn, rodnadi þessi allt í einn af gledi, lauk upp til hálfs munninum, og fórnadi upp høndunum, eins og til þackletis vid Gud, ad hans gódverk skyldi hér luckast honum. Hann vard

þess

þess var, ad sá fredni tók ad draga anda undir snjó-dyngjunni. „Flyttu þér nú, heillin mín „góð!" sagði hann vid húsfreyjuna, „og búdu „upp gott og hlýtt rúm, og velgdu handa ock- „ur einhverjar flíkur!! Nú tók Hans smám-saman ad hreifa hvørn liminn eptir annann; allir fegnudu, sem á sáu og enginn þóktist nóg géta lofad greind og náqvæmni Skólahaldar-ans. Hann þurkadi nú þann kalda upp med volgum, en ecki heitum fötum; lagdi hann síd-an í hlýtt rúm í köldu húsi, þar hiti var hon-um skadvænn. Þessi hálfdaudi madur raknadi smámsamann vid, og qveinadi yfir sárum bruna-stíngjum um allann kroppinn, sem æ vard nú raudari, og vóru þeir vottar þess, ad líf og tilfinníng tók ad færast í útlimina. En — hægri fóturinn var þó enn þá hvítur og tilfinníngar-laus, þess vegna setti Skólahaldarinn fótinn á ný ofan í kerhald fullt med snjó, þjappadi hon-um utanum allstadar, hvar hann sá fótinn hvítann og kaliun, og lét þar vid standa, uns hann rodnadi allur og bruna tilfinníng færdist í hann. Hann sagdi fólkinu undir eins, ad svona skyldi hvørr madur fara med kalda limu, svo sem: fót, tá, nef eda eyru, og yrdi vid þetta ad leggja nýkinn snjó í klút, binda um og fordast hita, því kæmi kalinn limur ad eldi eda í heitt vatn og megnann hita, væri hann tapadur. Þegar Hans tók ad géta rennt nid-ur, gaf hann honum bolla af rjúpnalaufs og blódbjargar te-vatni, med einu spónbladi af

ediki



ediki í, en sagdi betra, hvar sem hunáng væri til, ad meinga líka dálitlu saman vid af því, annars væri sykur nærfellt eins gott í þess stad. A medan var Læknirinn sóktur. Hann kom, og spurdi strax: hvert sjúklingi þessum hefdi verid tekid blód? en Skólahaldari qvad nei vid, því blódtaka væri ofhættuleg; eg veit ad hún í þessum kríngumstædum getur drepid, og ad ecki sé hún bragdandi, fyrr enn greindur Læknir fyrirsegir. Þér segid satt, ansadi Læknirinn, og bjó nú til púlver handa sjúklínginum, af 2 eda 3 grøndum kamfóru, bløndudum vid tvefaldt meira af smá-muldu hvíta-sykri, og 10 grøndum af hreinsudum saltpétri; af þessu sagdi hann ad gèfa honum, einusinni á hverri eykt, svo mikid, sem kjæmist á knífs-odd, í køldum vatns-sopa, og láta hann sídan drecka volgann te-bolla ofaná. Sídan lofadi hann ad flytja hann í hlýrra hús, og baud, ad hann í nockra daga fengi eckért annad enn súpur ad borda, eda þunnt mjólkurblaud, en eckért megnt og þúngt, og eckért mætti hann áfengt smacka, allra síst brennuvín, fyrri enn fullfrískur yrdi.

Adur enn Læknirinn fór þadan, gaf hann fólkinu þessi heilrædi: þegar þid egid ad ferdast úti í frost-bitrum og hard-vidrum, varist þá ad drecka brennuvín, en dreckid heldur súra syru, sem er eins gód og øl, vermir og styrkir; ferdist ecki fastandi, en bordid helst þúngann og hardann mat, fisk, kjøt, þyckt súrskyr og þessháttar, sem vel stendur undir. Núid á hendur og

fætur

fætur velgdri tólg eda nýju bræddu smjöri, og þvoid nef, varir og eyru í kaldri sýru, sem tólg eda brædt smjör er hrært saman vid. En naudsynlegast af öllu væri, ad halda á sér hitanum, halda alltaf áfram og vera á gángi, ecki ad setjast nidur til hvíldar, þó þreyta og svefn sígi á, því, sagdi hann, þegar kuldinn gagntekur kroppinn, gjörir hann þreytu og slen, slenid leidir þúnga og lyst ad sofa med sér, en sá, sem þá leggur sig fyrir í hörkum til ad sofa og hressast, verdur aldrei hressari, en sofnar, vaknar aldrei og helfrýs. Hann sagdi þeim og frá, ad hann einusinni hefdi lífgad vid gaddfrosna manneskju, sem legid hafdi úti í 2 daga.

Þannig komst Hans smámsaman til lífs og heilsu aptur med adstod þess æru-manns, sem honum lédi hús og rúm og adbúnad gódann, og med Skólahaldarans skynsamlegu medferd; fólkid lifdi vandlega eptir fyrirsögn læknirsins um hann, svo honum batnadi fljótlega. Fadir hans frétti med honum söguna, vard rétt frá sér numinn af gledi, ad heimta þannig ástkjærann son aptur úr helju, og þared hann var efna-madur gódur, vildi hann med öllu móti borga þeim gódu mönnum, sem fyrir hans vidlífgun hefdu haft, en enginn vildi þyggja hid minnsta þar fyrir. Hverr og einn sann sín ríkugleg verdlaun í ánægjunni yfir heillasömum afdrifum þessa mannræktarsama godverks.

Þegar allt var nú búid og fólkid, sem adkomid hafdi, fór heim þadan, gaf bóndi nockurr sig fram, sem med undrun hafdi á þetta horft,

og



og sagdi vid Skólahaldarann: "en — med leyfi "ad spyrja, Skólahaldari gódur! hvad skal til= "gjøra, þegar einhvørn kélur, og engann snjó er "ad fá?" Rád eru eins vid því, ansadi Skólahaldarinn. Þá skal taka ískaldt vatn og blanda saman vid þad smá=muldum ísi, til ad gjøra þad enn þá kaldara. Sídan skal taka margfaldt lérept, dýfa því vel í þetta sárkalda vatn, og vefja sídan fast utan um kalda liminn, eins og eg gjørdi med snjónum; og þar sem bletturr fer ad þorna, skal sífeldt leggja nývætta klúta ofan á, uns hjálpar. Enn hvad gott og blessad þad er, sagdi madurinn, ad Skólahaldarinn ockar veit svo gott Hjálpræði i neyd. Gud hjálpi honum aptur, og láti honum lengi vegna vel!

Allir furdudu þenna tilburd, og Sunnudaginn eptir, lagdi Presturinn út af þeirri ágætu frásøgu, um þann miskunsama Samarítan, en heimfærdi hana til lofs þeim greida=manni, er í neydarinnar tíd hafdi tekid daudvona náúnga sinn í hús, og af allri prýdi ad honum hlynnt, og engu sídur losadi hann náqvæmni og greind Skólahaldarans ad verdugleikum. En bændunum, sem neitudu hér þurfa=manni um bjørg og húsaskjól, las hann skorinordt og tilmunanlega annann texta, af Matthæi Gudsp. 25, 41 — 43. "Þá mun hann og segja þeim, er standa "til vinstri handar: farid burt frá mér, þér "bølvadir! i þann eilífa eld, sem fyrirbú"inn er fjandanum og hans árum; því, "húngradur var eg, og þér gáfud mér "ecki

"ecki ad eta; eg var þyrstur, og þér gáf-
"ud mér ecki þorsta-dryck; géstur var eg,
"en þér hýstud mig ecki; eg var nakinn,
"en þér klæddud mig ecki; eg var sjúkur
"og í fángelsi, en þér vitjudud min ecki."
Nagandi samvitska markadi svívirdu lit á enni
nálægra miskunarleysíngja, og allir héldu heim
frá kirkjunni med stödugum ásetníngi, ad sýna
þau miskunar-verk, er gætu, hvørjum helst, sem
naudstaddur væri.

## IX. Kapítuli.

### Hvørnig framvegis reiddi af nýju bók-inni í Sælíngsdals sókn.

Qvølda tók, og því hætti Prestur ad lesa, en
øllum þókti vænt um þad, sem komid var, eink-
anlega furdudu bændur sig yfir, ad Hans skyldi
rakna vid aptur, þøckudu Presti med øllum virdt-
um fyrir lesturinn, og qváduſt gjarnan hlusta
lengur á, ef hann vildi. Nockrir vildu fá bók-
ina heim med sér, til ad lesa konum þeirra á
qvøldin, en Prestur qvadst ecki mega bókina ljá,
nema med Hra. Mildbergs leyfi.

Þeir gengu nú allir glødir heim, og tøl-
udust vid á leidinni og undir þad skildu, um þá
skélfilegu ólucku, ad verda qvikſettur og rakna vid
í grefinni, og um hann Hans, sem úti vard.
Þad skal vera munur, fyrir skynsama menn, sagdi
Hrómundur Hreppstjóri, ad hlusta á annad eins



og þetta, sem landi og lýdum má verda gott hjálprædi ad í neyd, ellegar sannur fródleikur og upplýsíng, enn ad þylja fram heimskulegar lygasøgur, um rísa, um troll, um álfa, um huldufólk, um dverga og kappa, sem aldrei vóru til, en høggva þó í søgunnm, 12, 20 og stundum 30 høfud af í høggi, og þar vid lendir ætíd! ellegar um upploginn reimleika, drauga, forynjur, apturgaungur og galdra-verk, sem lærdir menn, og eg heyri Presturinn minn, kalla heimskra agn, og heimskra fódur, stundum segir hann, heimskufóstur! ellegar þá ad heyra sífeldt ólundar rímnagólid úr honum Hallvardi, sem þid látid gánga á milli yckar til ad qveda helvítskt bullid og heimskuna, sem Presturinn segir þad sé, og eg held hann segi satt. Líka væri mønnum mun skárra á helgum, þegar ecki er unnid, ad lesa adra eins almúga-bók ser til fródleiks og gagns, enn ad rída og rápa út um alla bæi á helgum, svalla út tíd og skildíngum sínum, drecka sig fulla, fljúgast á, detta, meida sig og koma med svíns-høfud heim aptur í manns-høfuds stad, vekja ófrid, tala af sér og ødrum æru og velferd, verda gódra manna vidbjódur og athlátur, eytur í húslegri ró og velgengni. Og, þó ecki væri neitt af þessu, er nær ad verja tómstundum sínum til góds og til þarfa, enn ad æfast, sem hálfvitar yfir málædu blødunum, af hverjum litla uppbyggíngu, en einatt skømm, skada og óvild hefir leidt; og, þó menn þurfi vid meinlausrar gladværdar til endurhressíngar, er fá hégómlegri til; en allt þetta

sannar

sannar þad, sem Prestrinn las eptir honum Salómoni, og sem Höfuds-madurinn Mildberg sálugi einatt vitnadi til: ad öll verk, sem gjörd eru undir sólinni, væru eintómur hégómi og skapraun. En — hvad lítst ydkur nú, piltakindur! væri ockur ecki best ad bidja Prestinn annadhvört ad lesa ockur meira úr bókinni, — því grunur minn er sá, ad fleira sé í henni fallegt og þarflegt — ellegar ad útvega ockur hana, hjá honum Hra. Mildberg, sem vid þeckjum gódviljadann vid fólk, fúsann á ad hjálpa og láta uppfræda; segja má Sælingsdals sókn af því? Allir qvádu já til þessa, og beiddu Grómund ad leida þetta í tal vid Prestinn. Hann var fús á ad framfæra þad vid Hra. Mildberg, og þessum manni var þad einkum stór gledi, ad heyra um almúga námslyst, hvörri hann vildi feginn gagnast med bókinni og hvörju, sem gæti. Hann rédi því af, ad láta prenta þad úr henni, sem þarflegt virdtist fólki þar um hérød, til fródleiks eda gagnsmuna, láta hana svo lesa í almúga-skólum á gótsi sínu, og koma þar í búendra hendur, ef hugsesta vildu og reyna, þá áliggur, hvíslegt er hún kénnir, annadhvört til betri þeckíngar og varúdar í framferdi manna, ellegar sem hentugt Hjálpræði í neyd; en Prestinn beiddi hann innilega, ad grenslast eptir í húsvitjunum, hvört almenníngur læsi þá bókina á eptir, færdi sér hana í nyt, ellegar skildi

C ecki



ecki rètt eitthvad í henni, sem hann þá bad hann greinilegar ad útlista.

## X. Kapituli.

### Hvørsu sá úngi Hra. Mildberg tók ad framqvæma Fødurs síns seinustu rádstøfun.

Høfuds-madurinn Mildberg heitinn, hafdi skømmu fyrir dauda sinn, gjørt eptirfylgjandi rádstøfun:

---

Þar ed eg, Fridrik af Mildberg, Herra til Sælings-dals, Gódheima og Efsta-lunds torfanna, af konúnglegri Hátign tilskipadur Høfuds-madur vid fótgaungu Herlidid, hefi tilhlýdilega yfirvegad, ad vegna veikinda minna, og hvort sem er, kynni andlát mitt fljótlega adbera; því hefi eg, enn þá med fullri rænu og burdum, tekid mjer fyrir ad gjøra svofelda sídustu rádstøfun mína:

1.) Þar ed sálin er skøpud eptir mind ósýnilegs Guds, og fyrir henni ber einkum ad ala ønn, sem eunm ágætasta parti mannsins, því fel eg hana til almáttugs Guds grunnlausu miskunar; en líkhamur minn skal í allri kyrrþey setjast í Graf-hús mitt, hjá mínum tveimur sælu konum, eins og eg sjálfur hefi vid lík þeirra látid gjøra.

2.) Hvad áhrærir jardneskar eigur mínar, þá tilnefni eg hjer med bædi mín kjæru fyrri konu børn, son minn Kristján Mildberg og dóttur mína

Maríu

Maríu Mildberg, sem einustu retta erfingja mína. En þar ed dóttir mín hefir í barnæsku verid svo ógæfuleg, af ofþraungum, slifum og sídum midtis-reyríngum, ad verda krypplíngur, og óhæfileg til hiónabands og barnburdar, skal hún, fyrir erfda-part sinn, hafa stødugt, ókeypis adsetur og mier sómasamlegt framfæri hier á gardinum Sælingsdal, uns Gudi þóknast ad kalla hana til sín.

3.) Þar næst gief eg eptir mig gamla Prestinum Hra. Jakobi í Hallanda sókn, sem vár fyrrum Prestur minn, 300 dúkáta, svo sem litla þócknun, fyrir þad eg, í úngdæmi mínu, ecki virdti, sem bar, hans hreinskilnu vandlætíngu, sem gódur Gud virdist af nád sinni ad fyrirgiefa mier.

4.) Til betrunar og þarfa barna-skólans hier í Sælíngsdal, set eg hier med 2500 rdl. á rentur, og skal pantur fyrir þeim æfinlega standa í gardinum Essta-lundi, en rentur árlegar, 4 rdlr. af 100, gángi til launa duganlegs og vid háskóla mentads Skólahaldara. Stúlku-børn í sókninni skulu, auk þess, er hann af bókum kiennir þeim ásamt drengiunum, læra af konu hans ellegar annars, hreinlega sauma, fljótt og vel ad spinna, prjóna, vefa, koma laglega ullu í fat og mjólk í mat, þrifalega, góda og drjúga matreidslu og medferd hans, og allann þrifnad í húsi.

5.) Vegna þess, ad gódur Gud hefir blessad mig med tímanlegum audæfum, lángt yfir allann minn verdugleika, en eg, engu ad sídur verid sorg- og rauna-

 mædd-

mæddur alla mína æfi, ecki rettilega getad adnotid þeirra mikln gæda, Gud hefir gjefid mjer, eda gladt mig af þeim; og eg ecki heldur hefi med þeim getad sjerlega adstodad medbrædur mína; þá er hjer med sá vilji minn og skipan: ad fyrrnefndur sonur minn gái betur ad sier í þessum hlut, og brúki þau efni, hann eptir mig fær í hendur, kristilega og viturlega til náungans nota, einkum til gagns Sælíngsdals sókn, og læri líka sjálfur ad gledja sig af þeim, en med hófi. Því giøri eg þá rádstøfun, ad nefndur sonur minn skal taka 5000 rdli. af reidu peníngum, sem hann eptir mig fær, og einúngis brúka þessa peníuga summu til ad reisa fyrir um framandi lønd, gjøra sig kunnugann allsháttar fólki, Kóngum, Furstum, edalmønnum, borgurum og bændum, svo ad hann læri ad þeckja, hvad hvørn einn brestur, fyrst ad allir qvarta sífeldt og eru midur ánægdir, ríkir allt eins og fátækir, háir og lágir. Þeirri ferd skal hann framhalda, uns hann rett fær skilid sanna orsøk til þessa, og sjálfur lært, hvørsu hann framvegis vardveita kunni ánægt og gladvært sinni.

6.) Prestinum ad Sælíngsdal skal árlega betala 20 rdli. Spesie, hvarámót hann skal, eptir fengnu Kóngs leyfi, árlega halda tvær predikanir yfir þessa texta: a) á fædíngar-dag minn, þegar hann ber uppá Sunnudag, en annars næsta Sunnudag eptir, skal hann af 1 Mósis bókar 1, 26. spyna: Til hvørs mennirnir eginlega eru skapadir af Gudi, og settir í þennann heim. b) A xta Sunnudag eptir Trinitatis, skal

skal hann í inngángi rædunnar útleggja Salómons ord í Predik. b. 1, 14. **Eg leit øll þau verk, sem gjørd eru undir sólunni, og sjá! øll vóru þau hjegómi og skapraun.** Af þessari grein og dæmi ríka mannsins í þess dags Gudspjalli, skal hann skírt í ljós leida hjegómlegleika heimsins. En í þessum predikunum má ecki nefna mig á nafn og eckert um mig talast, sem frumqvødul þessa, því þad væri allt eins hjegómlegt.

7.) Þann Sunnudag, sem predikad er yfir 1 Mós. b. 1, 26. skal bjóda 12 eldstu húsfedrum hjer í sókn, ásamt þá veranda Presti og Skólahaldara til midbags-verdar hjer á gardinum; Egandi hans skal sjálfur borda vid sama bord, og vinsamlega tala vid þá yfir máltíd. Þó skulu svallarar, ónytjúngar, dryckjumenn, flysjúngar og adrir óvandadir enga hlutdeild hafa í þessari virdíngu.

Þenna minn sídasta vilja hefi eg, til enn frekari stadfestu, med egin hendi undirskrifad og innsiglad.

Fridrik af Mildberg.
(L. S.)

---

Eptir þessum sídasta vilja fødurs síns sáluga lifdi nú sá úngi **Mildberg** trúlega. Hann betaladi strax út peníngana, sem hann hafdi gefid eptir sig; fécк systur sinni gott og mikid húsrúm á gardinum til íbúdar, og tók þegar ad búast til utanferdar, eptir 5ta pósti Testmentisins,



sem fyrir hann var mest í varid af øllum. Pad gjørdi hann og fús, þvi hann lángadi mikilega til utanlands-ferda, svo hann þess betur lært gæti, hvørsu hann lifad fengi farsæll, þó hann øllu vel gæti lært þetta heima. Til þess ad hann engu gleymdi, fèck hann sèr stóra bók innbundna af hreinum pappír, og ásetti þarí ad rita á hvørju qvøldi, hvad merkilegt og lærdómsríkt hann sjed eda heyrt hefdi um daginn. Umrád yfir fasteignum sínum og heima-gardi, fèck hann duglegum, rádvøndum umbods-manni, og greindann Herramann þar skammt frá, sem var gódur vinur hans, til ad líta til med honum. Fyri Páska var hann nú ad øllu ferdbúinn, en þar ed fædíngar-dag fødur hans, á hvørjum prèdika átti í fyrsta sinni, eptir Testamentinu, bar uppá annann dag Páska, dró hann ferd sína fram yfir hátídina, til þess ad heyra þessa rædu ádur og borda med sóknar-øldúngunum, eins og fadir hans heitinn hafdi fyrilagt, þvi allt Testamentid var af Kóngi ordrètt stadfest. Presturinn Hra. Andrès hèldt svo um daginn tvær stuttar, en snotrar prèdikanir, sem áttu svo vel vid ferdar erindi ens únga Herra, ad hann fèck sèr útskrift af þeim, og færdi þær, sem formála, inní ferda-bók sína, og þadan eru þær aptur híngad komnar.

---

XI.

## XI. Kapítuli.

### Há-messu-Prédikun Prestsins Hra. Andrésar á annann dag Páska, sem var afmælis-dagur sáluga Höfuðsmanns Mildbergs.

Miskunsami himneski Faðir! vertu oss náðugur og hjálpa oss, svo að vjer, eins og góðum börnum þín um ber, jafnan verða mættum betri og betri! Amen!

Kjæru vinir og Tilheyrendur!

Þjer vitið, að Móses í sinnar 1tu bókar 1ta kap. segir frá, hvörsu vor góði Guð skapaði sól, túngl, stjörnur og jörðina, með öllu því, sem á henni finnst; tilsetti hvað sérhvörr hlutur, eptir art og eðli sínu, vera skyldi og til hvörs þéna, svo að allt væri fullkomlega fagurt og gott. Hann hefir hagað því svo, að sólin, túnglið og stjörnurnar lýsa oss, að úr skýjunum steypir ofan regni, snjó og hagli, en jörðin framleiðir síðan allskonar ávexti. Fiskarnir skulu synda í vötnum og höfum, fuglarnir fljúga til og frá um loptið, og allt, sem lifir, finna sitt fóður og fjölga kyni sínu. En þegar kom að manninum, sagði Skaparinn, að vitni Móses í sama kap. v. 26.: **Látum oss gjöra mann eptir vorri mind, eptir líkíngu vorri, og hann skal drottna yfir fiskum hafsins, og yfir fuglum himinsins, og yfir fénaðinum, og yfir allri jörðunni, og yfir öllum skriðqvikindum á jörðunni.**

Af þessum ordum vil eg í dag leggja ydur á hjørtu eptirfylgjandi lærdóm.:

Vér erum af Gudi skapadir manneskjur, og settir til þess á jørdina, ad vér æ skulum breyta betur og betur og verda betri.

Þess vegna vil eg nú syna ydur:

I. Ad til þessa hefir hann skapad oss.

II. Ad hann og hefir þessa vegna valid oss bústad á jørdunni, ad vér hér skyldum fullnægja þessum hans tilgángi.

Vor texti kénnir hværutveggja stuttlega en þó skilmerkilega; ver megum og þessum ordum vel trúa, sem sjálfur meistarinn talad hefir, og sem vita má best, til hvørs hann vill ad verk hans séu. Hlustid því eptir med athygli, hvørninn eg vil þessi ord útleggja! því af øllu, sem vér lærum, mun ecki fist verá oss áridandi ad vita: til hvørs vér eginlega erum skapadir, og hvørnig vér fullnægt fáum tilgángi Skaparans, hér á jørdu þeirri, sem vér byggjum. Þad fyrra vil eg nú, med adstod Drottins, útlista fyrir ydur á þessari stundu, en hitt skulum vér eptirá í dag hugleida hverr med ødrum. Miskunsamur Gud sendi sina blessun til hværutveggja! Amen!

---

Ecki heitir þad svo í vorum texta: látum oss gjøra ríka eda fátæka, háa eda lága, vitra ellegar grunnhyggna menn, heldur heitir þad svo:

látum

látum oss gjöra manneskju! Hinn fátækasti daglauna-madur er þó allt eins vel manneskja og sjálfur Kóngurinn, sá einfaldasti allt eins og hinn lærdasti, og nýfædda barnid eins vel manneskja og eg med mínar gømlu gráu hærur. Þad á því heima hjá øllum manneskjum, hvørnig sem eru á sig komnar, sem Gud segir: látum oss gjöra manneskju eptir vorri ímind, eptir líkíngu vorri. Allir menn, og þess vegna allir vér, sem nú erum hér safnadir, egum því ad líkjast vorum máttuga, vísa og góda Skapara, vidlíkt og eptirmind einhvørs hlutar, líkist hlutnum sjálfum, ellegar lík børn foreldrum.

En þér vitid sjálfir, mínir vinir! ad Gud hefir eckert þvílíkt líkamlegt útlit, sem vér. Enginn sjer hann, enginn heyrir hann, enginn getur tekid eda þreifad á honum. Þad verdur jafnvel ecki sagt: hann er hér eda þar, en hann er ætíd allstadar nálægur, eins og David í sálminum segir: Hvørt skyldi eg fara frá þínum anda? hvørt ætti eg ad flýja frá augliti þínu? fari eg upp til himna, ert þú þar, og reidi eg mér legu-rúm í undirdjúpinu, sjá! þar ertú; tæki eg á mig morgunrodans vængi og flyttist á ytsta hafs skaut, þar mundi og høndin þín leida mig, og hægri hønd þín halda mér kyrrum. Þad er því ecki meiníngin, ad vér, eptir líkamlegu ástandi voru, getum haft sama útlit og Gud. Vor sál, hvadan þánkar og vilji upprenna, og sem enginn heldur fær sjed, heyrt

 

ėdut áþreifad, þó hün stjórni líkamanum og øll-
um hans limum, — hún ein á ad vera Guds
eptirmind.

Nú munud þér giarnan vita vilja, hvørnig
þér egid ad breyta, til þess ad sálum ydar audn-
ast mætti sú kostulega vegsemd, ad verda ímind
þess allrahæsta Guds! en — þetta hefir gódur
Gud siálfur skilmerkilega afmálad fyrir oss, med
þeirri adferd hann siálfur brúkadi, þegar hann
skóp alla hluti, og eptir hvørri hann sídan stjórn-
ar þeim sífeldt. Þegar vér réttilega gaumgæf-
um þetta, finnum vér fyrst, ad hann allt hefir
sem best tilbúid, og hagar øllu sídan allt eins vel.
Fyrst tilbjó hann hafid handa fiskunum, loptid han-
da fuglunum, þurrlendid fyrir fénad og villudýr,
og fódur handa sérhvørju þessara, ádur enn hann
skóp þessar sképnur. Fyrst setti hann sólina á
himininn, ádur enn hann lét af jørdunni upp-
vaxa trè og jurtir, sem þurfa sólar-hita vid.
Enn í dag stjórnar hann sólu, túngli og stjørn-
um á réttri leid, svo ad ekkért reki sig á annad,
géfur regn og sólskin, kulda og hita, sérhvad í
hentugann tíma. Svo hefir hann tilbúid vor
augu, ad þér siáid mig og eg ydur; vor eyru
svo, ad þér gétid nú heyrt til mín, og med því
móti skilid meiníngu mína; þannig hendur vor-
ar, ad vér med þeim gétum giørt snildar-mestu
og vøndustu hluti. Og allt eins mikla dásemd
vottar skøpun hans á øllum sképnum, trjám,
jurtum, já! á hvørju minnsta merkurinnar
blómstri. Því er rètt mælt af Móse í 1 B. 1,
31.

31.: Og Gud leit allt þad, hann hafdi gjørt, og sjá! alltsaman var þad harla gott. Viljum vér þess vegna vera Guds eptirmind, ber oss einnig ad laga svo allar athafnir vorar, ad allar þær séu harla gódar.

Þar nærst hefir Gud med øllum sínum verkum sýnt, ad hann er sjálfur harla gódur. Hann elur enn fyrir øllum mønnum og sképnum, eins og gódur fadir fyrir børnum. Allra augu vona til Drottins, og hann géfur þeim fædu sína í réttann tíma. Handa þeim minnsta ormi hefir hann tilreidt hentuga fædu til sadníngar; géfid honum líka sína, til ad skémta sér vid. Og yfir oss manneskjur, bædi vondar og gódar, lætur hann upprenna sína dásamlegu sól, og rigna yfir réttláta og ránglata. Oss hefir hann alla jørdina afhendt, med øllu, sem á henni vex og lifir, til þess ad vér færum oss þetta í nyt, lifum gladir og farsælir. Upp yfir oss hefir hann sett þann dýrdlega bláa himin med ótal tindrandi stjørnum, og bjørtum skýjum, ígégnum hvør þær skína ofan til vor. Svo hefir hann lagad vor hjørtu, ad daglega gétum vér mikillar ánægju adnotid, þegar vér í hjónabandi, ellegar sem foreldrar og børn elskumst innbyrdis, og þegar vér, sem vinir, nágrannar og medborgarar í heiminum umgaungumst hvørr annann í ástsemd, og hvørr adstodar annann med rádi og dád. Hann vill ecki heldur ad syndarinn tortýnist, heldur, ad hvørr og einn sjái ad sér

og



og verdi sáluhólpinn. Því svo innilega elskadi Gud heiminn, ad hann útgaf sinn eingétinn son til þess, ad hvørr sá, sem á hann trúir, tortýnist ecki, heldur ødlist eilíft líf. Sjáid þér nú, minir vinir! svona gódur er vor himneski Fadir, og eins gódir ættum vér manneskjur einnig ad vera, ef vér bera vildum hans sonnu imind.

En, hvørsu megum vér nú ecki skélfast, þegar vér íhugum, hvørsu ílla vér einatt høgum athøfnum vorum? hvørsu mørg heimskupør adhøfumst vér ecki vora æfi-tíd? hvørsu opt sýnum vér oss óvinsamlega, øfundsjúka, þráttunarsama vid náúnga vorn? hvørsu grimm og þrælsleg er ecki margra medferd á ómálga dýrum? hvørsu margur steypir sér sjálfum og ødrum í tjón, smán og ólucku, med svalli, sóun og ofdrycku? hvørsu margur gledst ecki af óførum náúnga sins, en fáir af velgengni hans? hvørsu margur letimagi spennir heldur greipar í ómennsku og ydjuleysi, heldur enn hann starfi nockud nytsamlegt, þegar ýtrasta naud ecki eptir-rekur, í stadinn fyrir ad leita sér ærlegrar atvinnu med sveita síns andlitis? — Þegar vér íhugum þetta og þvílíkt, mættum vér hardtnær efast um sannindi þess, ad Gud hafi viljad láta oss bera sína eptirmind, þegar vér líkjumst honum svo litid. Eda, segir ecki Ritningin sjálf: Enginn er gódur nema Gud einn? hvørsu megum þá vér, veikar mannsképnur, gjøra allt vel, og vera eins gódir og hann?

Er

Er hér ecki hver Ritníngar-greinin annari gagnstæd?

Unnid rædu minni enn þá nockurrar athygli, kjærir vinir! og þá munud þér sjá og skilja, ad þau ord Guds: látum oss skapa manneskju eptir vorri ímind, eptir líkingu vorri, eru sønn og viss, og ad heileg Ritníng ecki er sjálfri sér gagnstæd um þetta efni.

Er þad ecki satt, ad barnid, sem fyrst fædist í heiminn, veit og skilur eckért? med árunum fær þad fyrst skynsemi, og gamlir menn og konur eru optar skynugri og vita meira enn sa gjálífi úngdómur. En, kémur þetta nú ecki af því, ad þeir um dagana hafa sjed fleira og heyrt, og sjálfir yfirvegad og ígrundad meira? Eru ecki nockrir ydar á medal med því móti ordnir ødrum hygguari og duglegri menn, ad þeir hafa vída verid og farid, sjed og reynt sig vid hitt og þetta í heiminum? Eda sýnir þad ecki, ad vér manneskjur getum sí og æ ordid smámsaman greindari, enn vér ádur vórum? Því, þar á ridur einúngis, ad vér ecki, sem skynlausar sképnur, ønum áfram í heiminum eptirþaukalaust, heldur ad vér, vid sérhværja athøfn vora íhugum kostgæfilega, hvørnig best verdi ad henni farid, og hvørs vegna vér nú breytum þannig eu ecki ødruvísi; ad vér ransøkum, hvad af því leida muni, þegar vér adhøfumst hitt og þetta; ad vér opt og med gaumgæfni yfirvegum, í hvørju hvílegir hlutir séu hvørr ødrum áþeckir, í hvørju ólíkir; hvørt gagn og skadi megi ad sérhvørju

verda.



verda. Vildum vér þannig vandlega ígrunda hvad eitt, er vér siáum, heyrum og siálfir tökum oss fyrir hendur, þá mundum vér med árunum finna greind vora og skynsemi vaxa og þróast, vidlíkt og vel haldid og ræktad úngvidi dafnar og þroskast á gódum stad í uppvextinum; og þad alla vora æsi, til hrumrar elli; og þá mundum vér líka læra æ betur og betur ad haga athöfnum vorum.

Sömuleidis, þegar vér loksins tökum ad audsýna gódgjördir ödrum manneskjum, ad umgángast adra í kiærleika og vinsemd, ad hiálpa naudstöddum, og þessir aptur á mót audsýna oss alla gódvild og ástsemi, verkar allt þetta þad gagn fyrir vor hiörtu, ad gódvild og kiærleiki dafnar allt eins og þróast í þeim, eins og gras í gróanda um vel ræktada völlu.

Ydur mun líklega enn þá reka minni til, þegar allt bæa-þorpid í Kaupstadnum Leyningi skammt hédan, brann upp til kaldra kola, fyri fáum árum. Allir sóknar-menn, sem skridfærir vóru, þustu þángad til ad biarga mönnum og gótsi, og slöckva eldinn, og siálfur flutti eg mat á hestum frá yckur sameginlega til fólksins þar, því ecki vóru þá adrir til þess. Þér munid, ad þér þá skiptud þessum húsvilltu vreigum og fiölskyldu þeirra á bæina hiá yckur, hiálpudud þeim sídan vorid eptir til ad byggja upp aptur bæi sína, gáfud þeim allmargir gódann styrk til bústofns á ný, svo nú eru þeir þegar búnir ad ná sömu blómgun aptur. Enda er bæjar-mönnum

þar

þar síðan svo vel til ydar, að þeir fúsir gengju útí hvørn lífs-háskann ydur til frelsis, ef á þirfti að halda, fagna, ef eitthvørt barnið yckar kémur þar í þorpið, og taka því með kostum og kynjum. Ydur sjálfum er nú líka lángtum betur í þocka við bæarmenn þar, enn áður; það munuð þér allir kannast við, en af hvørju mundi það vera, ødru enn því, að þér ærnsamlega vottuðuð þá í verkinu velvild ydar til þessara naudstøddu nágranna, og að þeir fyrir það elska ydur og vildu nú fegnir sýna það aptur í verkinu, nú þegar Guð gèfur þeim á ný blómgun og krapta til þess. Þannig hefir bróðurleg ást vaxið stórum á báðar síður ydar á milli. Þar af sjáið þér og augljóslega, að vér manneskjur gètum æ komist lengra og lengra í góðvild og kjærleika, þegar vér fyrst tøkum að æfa þessar dygðir. Allteins er því varið með þolinmæði, hóf semi, traust til Guðs, og í stuttu máli að segja: allar kristinndómsins dygðir. Daglega gètum vér orðið betri og betri; betri manneskjur, betri kristnir. En því umhyggjusamari og kostgæfnari hvørr og einn er í því að gjøra þetta, því lengra kémst hann áfram í verkinu; því allt eins á hér máltakið heima: laung æfing gjørir listamanninn, og það verður hvørjum að list, er hann leikur. Sjálfur Guð hefir vislega hagað því svo, að oss ecki tekst allt í einu að verða fullnuma um allt, og fullkomlega góðir, heldur að vér alltaf gætum komist lengra og lengra, þegar einlægann vilja og vidleitni ecki brestur. Þar af megum vér

því



því fullráda, ad hann med skipuninni um, ad vér skyldum bera hans ímind hér á jørdu og líkjast honum, hefir og haft tillit til þessa vors ásigkomulags, svó ad vér, ad sønnu ecki allt í einu gjørdum allt vel edur yrdum fullgódir, heldur lærdum alla vora æfi sífeldt ad breyta betur og betur, verda sjálfir betri, í dag betri enn í gjær, á morgun betri enn í dag. Þó aldrei gétum vér ordid Gudi fullkomlega likir, ega votar sálir þó smámsaman ad líkjast honum meir og meir, allt eins og málarinn gjørir eptirmindina æ líkari og líkari því, sem hún sýna á, þó aldrei verdi hún nema eptirmind.

Vér erum þess vegna einkanlega skapadir til þess af Gudi, ad vér sífeldt skulum taka oss fram í øllu gódu, breyta betur og verda sjálfir betri. Þess vegna hefir hann og géfid oss ódaudlega sálu, sem ecki rotnar eins og líkaminn í grefinni, heldur lifir um eilífd, þó líkaminn deyi. Þessi vor sál, sem ecként skynjar í upphafi, og ecki veit hvad rétt eda rángt er, vondt eda gott, á þess vegna frá úngdæminu allt fram á efstu ellidaga, allt af ad láta sér framfara í vísdómi og dygd, og jafnvel í sjálfri eilífdinni verda jafnan vísari og betri. Þess vegna eru oss géfin augu, eyru, málfæri og svó lista-næmar hendur, ad vér lærum skulum dag eptir dag ad haga øllum fyritækjum vorum betur og betur. Ad breyta betur og verda betri má þess vegna vera vor mest umvardandi áhyggja og kostgæfni í øllu voru lífi. Hvad helst vér tøkum oss fyrir hendur, megum

vér

vér hvørki sækjast eptir ríkidæmi, virdíngu og hóli ellegar sællífi, heldur einkanlega eptir því, ad verda hyggnari, duglegri og betri, svo ad vér med þvílíkum mannkostum, fáum æ meira og meira gott framqvæmt hjá sjálfum oss, í vorri húss-stjórn og búskap, í sveit vorri og svo lángt, sem tilnáum. Í þessari tilraun skulum vér þannig hlýdnast Krists skipun: Leitid fyrst Guds ríkis og hans réttlætis — þad er: látid ydur fara fram í þekkíngu, med því ad ígrunda jafnan, hvad rétt sé og gott, og breytid kostgæfilega þareptir — þá skulud þér ødlast allt hitt, nefnilega: heidur, góts og gladværdir.

Já! þessi var vissulega þín meiníng, miskunsami himneski Fadir! þegar þú sagdir: látum oss gjøra manneskju eptir vorri ímind, eptir líkíngu vorri! og til þessa lítur Postulinn Páll, þegar hann skipar oss: verid Guds eptirfylgjendur eins og elskuleg børn! þvíad þú, Fadir! ert einn gódur og fullkominn og allt hvad þú gjørir, er harla gott. Vér, þín veiku og breisku børn, gétum ecki gjørt allt vel, ellegar verid í øllu tilliti gódir eins og þú, þess vegna lætur þú þér og vel þócknast, þegar vér ad eins leitumst stødugt og trúlega vid, ad betra vort framferdi og sjálfir æ verda betri og betri. Til þessa hefir þín fødurlega hønd skapad oss. Géf oss þess vegna nád til, ad vér dag hvørn verda mættum hyggnari, duglegri, kostgæfnari og innbyrdis ástúd-

D legri



legri hvørr vid annann, og þannig æ meir og meir lagast eptir og líkjast þér! Amen!

## XII. Kapítuli.

### Hvørsu 12 eldstu húsfedur í Sælings-dals sókn sátu að middags verdi med Herrannum Mildberg á Gardi hans.

Eptir embættid gengu þeir 12 menn, sem bodnir vóru til middags-verdar inni Hra. Mildbergs gard ásamt Prestinum og Skólahaldaranum; þeim var vísad inn í bordstofuna, hvar Hra Mildberg tók þeim vel og vingjarnlega. Þad var honum nærsta mikil glédi ad sjá þar saman 12 rádvanda dánumenn, hvørra gráu hærur og þockalegi búníngur gaf þeim æruverdugt útlit. En — geta má þess vel, ad ríkasti og eldsti bóndinn í sókninni Pétur Rasmusson var ecki bodinn, heldur í stadinn hans fátækur hjáleigu-madur, Jón Jónsson ad nafni. Orsøkin var, ad hann nauinast áleit Pétur, sem húsfødur, því hann bjó alltaf ógiptur med stúlkum, sem af honum høfdu fengid skarn-rykti, hann var og dryckjumadur og slysíngur, en Jón var giptur og átti 5 børn. Hérads-fógetinn og Umbodsmadur Hra. Mildbergs vóru og bodnir til bords, svo alls sátu hér ad middags-verdi 17 vid bordid. Bændurnir bordudu svo kurteyslega med allri sidsemd, þad sem uppá var lagt fyrir

þá, og sögdu fram meiníngu sína svo skynsamlega og stillilega, þegar til þeirra var talad um eitthvad, ad Hra. Mildberg furdadi þad miøg og taladi þarum med mikilli ánægju vid Prestinn og Skólahaldarann, því þeirra mentun, uppfrædíngu og vinsamlegu umgengni vildi hann einkum þacka, ad þessir menn kunnu sig hér svo vel hjá ædri mennum. Því, sagdi hann, almúginn trúir Prestinum næst Gudi og lagar sig stórum eptir honum í útvortis háttsemi. Prestar gëta því manna hellst vanid hann eins og børn, bædi til ills og góds, til rustadóms og kurteysis, og í einu ordi ad segja: til alls. Þad er því eí unarlaust, ad eins og eckert gëtur hlotnást sóknum heppilegra, enn gódur Prestur, svo er sameginlegt tjón og ógæfa þeirri sveit búin, sem þyggja á uppfrædíngu og eptirdæmi af ónytum eda illviljudum Kennimanni, máské hverlyndum og aula þar med. En ëg kalla þann ecki gódann Prëst, sem einúngis heldur alsæmilegar rædur í stól, heldur þann, sem í rádvendni, í sidsemd, í ástúdlegri umgengni, og einkum því, sem vidvíkur yngri og eldri manna vegleidslu til ens góda, í hjátrúar og hleypidóma upprætíngu, og í almennings løgun til skynsamlegs eptirþánka og hlydnis vid yfirbodendur, lætur, eptir Frelsarans bodi, sitt ljós svo lysa fyrir mønnum, ad þeir sjái þeirra gódverk og vegsami Gud Fødur á himnum.

Yfir bordum bar margt á góma, um heyskap, um pengings-høld, um búskap og kaupskap



og þessháttar. Medal annars sagdi Hra. Mild-berg frá, ad nýlega hefdi reyndur búmadur med reikníngum nockurra ára sýnt, hvørsu áridandi hlutur þad væri hvørjum búanda manni, ad láta nautpeníng, sem hann á sumrum heima hèldi, liggja inni á hvørri nóttu, árid um kríng, og ydugleg brúka, allstadar hvar yrdi, bædi færi-steck og færi-qvíar handa saudfé, þó hann minna lofadi þess innilegu á nóttum um þann tíma; Því, sagdi hann, sèrhvørs búanda velmáttur er kominn undir miklum og gódum búmat; mikill og gódur búmatur fæst ecki af fáum og illa holdn-um skèpnum, en hvørki verdur þeim fèlgad til gagns né gód medferd og forsorgun veitt, á med-an jardir nýdast nidur, en ecki ræktast betur enn almennast er. Séu kýr látnar á sumrum inni liggja um nætur, sparast þeim gángur tvívegis lángann veg, og smalanum ómak, verkfall og skór eda reidskjótur med þeim, þær liggja fyrir þad enn skémur úti enn annars á daginn, eta gráð-ugar, haldast vid eins góda og miklu jafnari nyt, betri hold, þegar hretviðri mørgu verdur þannig af þeim skotid, gjøra þá hvørki túnum né engjum ásókn og skada á nóttum, en umfram allt skila þeim kreptugasta og besta áburdar-auka, á hørd og møgur tún, sem von er til, því áburd-urinn líkist fódrinu, sem á sumrum er grænt, kraptagott og vøkvafullt gras, á vetrum visnad, hrakid og allopt skèmmt og lítt-nýtt. Þad er því vafalaust, ad 1 hestur af gódri sumar-mykju er allt eins kreptugur á litlum reiti, og 2, nærri

því

því hafdi eg sagt, og þó máske ecki ofhermt, 3 hestar af misjafnri vetrar-mykju. Eptir áburdarins gædum og vøxtum og skynsamlegri medferd fer þó jardanna rækt, gædi og vøxtur hellstu heybjargar manna á flestum jørdum, eptir heyinu mjólk, matur, velmegan og andlegd alls sveitafólks, sem hér er þó fjølmennasti og besti hlutur landsmanna vorra, og nærist af landsins hellsta og sanna ríkdómi, af vel ræktudum jørdum, og þeirra og fólksins vissasta vidhaldi, lifandi peníngi, sem þær framfleyta. Med nockurra ára þrifnadi og gódri umhyrdíngu, og þeim besta áburdar-auka af innilegu kúa á sumrum, og af færi-steck og færi-qvíum um heima-tún og ný-valid ræktad steckjar-tún-stædi, qvad Hra. Mildberg þenna búmann aukid hafa svo tødu-feng sinn á hardbala jørdu, ad hann í stad 60 kapla tødu, er jørdin gaf honum alls á ári, fyri 8ta árum sídan, bregdast honum nú ecki full 2 stór hundrud; enda eru nú hjá honum vel haldnar 10 kýr á tødu og útheyi, sem 4 skridu illa fram ádur, og sandkenu þeim mun fleira nú enn fyrri, en mann-afli allur enn sami, nema einni vinnukonu fleira, til ad hyrda og verka matinn undan þessari peníngs fjølgun.

Reynid nú líka, sagdi hann, gódir menn! ad taka sama upp eptir honum, en hagid því svo, ef getid, ad fjós yckar geti stadid edá fluttst ad túnjadri, sem nærstur er bænum, ellegar hladid trød þadan heim ad fjósinu handa kúm ydar, svo ecki þurfi ad rekast yfir um tún. Eg álit þetta

 ad

 

ad vera svo markverdann hlut fyrir rækt og vid-hald míns jarda-góts og velmegun landseta minna, ad eg hér med lofa ad gefa þeim landsetu mín-um upp eins árs landskuld, sem fyrir mér sann-ar, þegar eg kém heim aptur, lofi Gud, ad hann í fjærveru minni hafi þessari reglu stödugt og þrifasamlega fylgt, haldid öllu, sem vard, til á-burdarins og trúlega varid honum, sem skynsam-legast jördunni til gagns og góda, en þar af fylg-ir, ad hann alls eckért má þurka til eldividar af áburdi eda mykju, sauda eda nauta, sem er straffs-verdur ósidur. En — eg vil nú ecki minnast framar á þessa medferd eda jardar-rækt í þetta sinn, því þid gétid, gódir menn! fengid naud-synlega reglu um þetta ad vita, medal annars í Bænda Praktika, sem eg hefi géfid skólanum, og læt nú líka prenta handa þeim, sem vilja.

Um hámessu prédikunina vard og tilrædt, og Hra. Mildberg qvadst vona, ad þegar hann eptir rádstöfun födur síns ferdadist um framandi lönd og tæki þar eptir, vegna hvörs flestar mann-eskjur væru ófarsælar og midur ánægdar, mundi hann líklega vída finna þá orsök þessa, ad þeir alla þeirra æfi út, ecki kappkostudu ad haga at-höfnum sínum æ betur og betur, verda hyggnari, duglegri og nytsamlegri menn. Hann gétskadi þar á mót á, ad einn mundi á eckért annad hugsa, enn ad verda ríkari, annar ad verda virdtari, hinn þridji ad fullnægja fýsn sinni og laungun til sællífis, ofætis, hefndar og annara vondra hluta, þess vegna, ad hvörr og einn fýktist eptir ein-

hvörju

hvørju, sem opt mætti bregdast honum, þar adr-ir matkari-kjæmu honum í forkaupid. Yfir þessu gvørtudu menn og jafnadarlegast og væru hellst þaraf mótlættir. Hérads-fógetinn bætti vid og sagdi, ad málsháttur-inn; viljinn er hvørs eins himnaríki, mundi reynast sannur. Þegar nú einn, til dæmis: leitadist sífeldt vid ad vera hreinskilinn og rádvandur, verda skynugri og ad vardveita jafnan góda samvitsku, mundi honum nammlega bregdast gódrar samvitsku verdlaun, nefnilega innvortis ánægja, hvørrar, hinir sakna mættu, er ødruvísi breyttu og gætu þó ecki fyrirmunad honum þess, er hann óskadi, sem er þessi dýrmæti sálar fjársjódur. Hreppstjórinn Hrómundur ansadi hér til med allri sidsemd: Ydar ordi æru, Herra minn! en leyfid Þér mér ad seg-a einfalda meiníngu mína, þá er hún sú, ad margir af oss bændum hafi litla tíd til ad géta komist svo hátt med þaunkum sínum; þad er samt fyrir mikla menn, sem komast til ad liggja í bókunum, en vid og ockar líkar, megum þacka Gudi, gétum vid komid því af, sem gjøra þarf og barist fyrir því, ad hvørr fái þad honum ber, en vid krabslad ofan af fyrir ockur eins og ærlegir menn. Eg vil engann tilnefna, en Hérads-fógetinn ockar veit best, hvørjir eru lakastir búmenn og skuldugastir hér um sveitir Gudi og hvørjum manni, og hvar allt gengur krabba-gáng, en eg hygg þó, ad þad muni þeir, sem hánga optast í postillum, bæna- og sálma-skrædum, þússa og raka sig upp, sem best, lesa og sýngja ell Kyrie, Gloriur, Halelujáin



og Creddur á hvørn aftekinn pápíſkann helgidag, ſem þeir finna í Almanakinu; og gánga heldur út ad drecka og ſpila heldur enn ad leita ſér og ſínum næríngar med ærlegu móti og bjarga atvinnu ſinni frá ſkémmdum á þeim døgum; en, andi nockurr á móti þeſſum hræſuis ſid þeirra, hafa þeir ritníngar-greinir fleiri uppi ſér enn þeir fái laglega útkomid í einu, gánga med fordæmíngar-hróp og bølvana lýſíngar ockar og manna á milli, ſem ecki vilja eins gjøra. — Þjá! ſagdi Preſturinn, þú ſegir ſatt, Hrómundur ſæll! og eg má bæta því vid, eptir 30 ára reynſlu og þeckíngu minni í fleiri ſefnudum, ad þeir eru jafnadarlegaſt lakaſtir kriſtnir og meſtir hræſnarar, ſem meſt vilja þannig birtaſt fyrir mønnum, halda uppi óþarfa helgihøldum og hégómlegum Serimoníum, eins og Faríſearinn, ſem fór med Tollheimtaranum ad bidjaſt fyrir, hvørs gudhrædſlu Jeſús þó virdti miklu minna, og leſid þó enn framar med athygli þá merkilegu rædu, ſem Jeſús héldt fyrir Faríſeum, um ýmſar þeirra fánýtu Serimoníur, og ritud ſtendur í Matth. Gudſp. 23, 1—39, hvar hann ſkorinordt ſýnir þeim, ad útvortis helgihalds ſidir, ſéu einkis virdi án hjartans rádvendni, og lyktar ſitt tal til þeirra med þeſſari hugvekju; Þér eiturormar og nødru-kyn! hvørnig ætlid þid ad umflýja helvítſka hegníngu? en eg ætla þad rétt mælt, ad ønnur eins helgihøld og þú tilnefndir og margt hvad, er einúngis tollir í gamalli tídſku og vana, ſé rétt á bord vid heilagleika Faríſeanna. Jafnvel

þeir bráðvønduſtu leſa, biðja og ſyngia hvað meſt og tala um guðlega hluti, um veſtnandi øld og heim, um himin, díeful og helvíti, einúngis til að hræſna og dýlja ſtrákſkap ſinn fyrir mønnunum, en litið breyta þeir eptir því, ſem þeir ſlapra. Vor Drottinn Jeſús hèldt engar eykt-ar prèdikanir fyrir mønnum, en með fáum orð-um ſagði hann, hvað gjøra ætti og breytti ſjálf-ur fyrſtur eptir því. Vèr egum því ecki að ſi-ſtagaſt á Guðs orði, ellegar brúka fjølmælgi, þegar vèr biðjum Guð, heldur í øllu, ſem vèr tøkumſt á hendur, opt íhuga þegjandi, að Guð vill vèr framqvæmum allt, ſem beſt, eptir krøpt-um vorum. Þegar vèr þannig hugſum og breyt-um þar eptir, en reiðum oſs jafnframt á aðſtoð Guðs, og þegar vèr leggjum hug á að auka við þeckingu vora, upplýſaſt æ meir og framar og betraſt, ſvo að ver lærum að þeckja hvað til vorr-ar ſønnu farſældar og fullkomnunar heyrir í þeſſu og ókomnu liſi, þá lærum vèr að þeckja og heiðra ſannann kríſtinndóm, og það er hvørki almúga ſálarkreptum nè annríki ofvaxinn lærdómur; því gèfi hann til þvíumliks gagnlegs leſturs helgi-daga tómſtundir, í gamal-Serimonia, ſaungva, poſtillna og ſpilanna ſtað, ellegar ſtundarkorn í ſenn afteknu pápiſku helganna, ſem hvørt ſem er ſvallaſt burt í ſynd, hræſni og ómenníſku, að eg ná ecki neſni leſtur góðra almúga fræði-bóka á vetrar-vøkum í hvørju húſi, í ſtaðinn hennſku- og leiðin-legs rímna-góls og lyga-ſaga þvættings, hygg eg af øllu þeſſu auðſætt, að annað breſti

almúga meir enn tómstundir frá störfum sínum til ad nema nockud sér til sóma og gagns, og þó eckért forsóma af vinnu sinni. Vídast hvar eru og börn á bæjum, sem æfast þurfa í lestri, og væri þá nær ad fá þeim þar til í hendur góda frádleiks, búskapar og sidgædis bók eptir upplýsta menn, til ad lesa hátt fyrir öllum, enn gamlar Tára-pressur, Kross-skóla, Ydrunar-speigla, Paradísar aldingarda, Sigurhróss- og Gér-hards-Hugvekjur, sem vída sýkja og rugla heilbrygda skynsemi, en fylla ýhli og örvæntingu í stadinn, og taka allann kjark til góds úr mönnum.

Hra. Mildberg ansadi til þessa og sagdi: Þad er dagsatt, Hra. Andrés! ad höfudpóstur kristinndómsins er óefandi sá, ad vér á-stundum síseldt gódir ad vera og gjöra rétt, og reidum oss bædi í medlæti og mótlæti þar á, ad vor himneski Fadir vill oss jafnan hid besta. Til þessa þarf ad sönnu ecki bókrestra, en med því er eg allur, ad gott væri þad fyrir almúga ad fá adrar bækur ad lesa til skémtunar, þá tóm gésst, enn þær gömlu, sem nýlega nefndud þér, og sem á stundum gætu bendt honum til, hvörsu hann í mörgu gæti betur hagad búskapi sínum, hjálpad sjálfum sér og ödrum í margri uppáfallandi neyd, vidlíkt og þér í kénningum ydar sýnid honum, hvörnig hann egi vel ad ala upp börn sín, hvörsu hughreysta sig og adra í sorg, med hvörju verda hugsterkur í háskasemdum, med hvörju frida samvitskuna í ýhli og efasemd og styrkjast í öllu gódu; en bædi

bædi nóg medol og tóm til þessa, afkast nú bænda-folki ár eptir ár án nockurs tímaspillirs frá bjargrædis útvegum þess. En — á medan þad rífur sig ecki laust úr venjunnar og þánka-leysisins fjötrum, lærir ad brúka sjálft þá dýr-mætustu gjöf Skaparans, skynsemina, sér til sannfærslu og upplýsingar um rángt og rétt til framfara og gagns sér og ödrum, er lítils góds af bestu vidleitni manna til almennings heilla ad vænta, eda, med ödrum ordum, lítils rétt-nefnds og ávaxtarsams kristinndóms, því allt lendir í gamalli venju, hvörsu skadvæn og heimskuleg sem er, allt í útvortis Serimoníum, allt í heimsku, hvérúd, hræsni og Fariseara-dómi.

Þannig rædduft menn vid yfir bordum um margt fleira. En þar ed Hra. Mildberg tók eptir því, ad bændurnir druckn eckr vínid, sem fyrir þá var ískenkt, vegna hæversku, bendti hann Prestinum ad drecka, tók staup sitt og sagdi:

„Vorra gódu bænda skál! Gud blessi þá!“ Prestur þreif sitt staup og sagdi:

„Gud blessi þá fyrir witt og margra vidur-hald.“! Nú urdu bændurnir líka ad drecka skál, Hreppstjóri Hrómundur sagdi: „Gódra Yfir-„manna skál! Gud blessi þá!“ Annar bætti strax vid og sagdi: „þeim egum vér rósemd og vernd-„un æru lífs og eigna ad þacka“!

Med þessu leid middegid í gódri gladværd. Bændurnir gleddust meira af því, ad Herrann þeirra virdti almúgafólk svo mikils, enn af þeim

ágætu



ágætu kéttum og víninu. Þeir lásu nú frá borð-
um, og gengu skömmu seinna, þá samhringt var,
allir út í kirkjuna aptur, hvar Prestur héldt ept-
irfylgjandi, en fyrr áminnsta, ræðu:

## XIII. Kapituli.

### Qvøld-saungs-prédikun Hra. Andrésar á annann dag Páska í Sælings-dals kirkju.

Góði Gud, vor Skapari og Vidhaldari! þú hefir sadt oss med mat og dryck, hvar fyrir vjer færum þjer hjartanlegt þacklæti; en legg nú sjálfur þína nád til þess, ad þitt ord megi styrkja skynsemi vora og elsku til alls, sem gott er, eins og vor líkami er nú med fædunni endurhresstur. Amen!

Ástkjæru Vinir og Tilheyrendur!

Vér hefum í dag vikid á, hvad vor gódi Skapari hefir tilætlad, þegar hann skóp oss manneskjur til þess ad líkjast sér, nefnilega: ad vér allir vora æfi skyldum kosta kapps um ad verda í øllum hlutum betri og betri, og sífeldt læra ad gjøra allt hvad vér tøkum oss fyrir betur og betur. Látum oss nú yfirvega, hvørsu þetta framqvæmia megi af sérhvørjum í sínu standi, hér á jørdunni, hvar vér búum.

Þar stendur framvegis í textanum: Hann nl. madurinn, skal drottna yfir fiskum hafsins og yfir fuglum loptsins, og yfir fénadinum og yfir allri jørdunni og yfir øllum

skrid-

skridqvikindum jardarinnar. Og í 28da versinu segir: ad Gud hafi skipad mennunum, ad leggja jördina undir sig og drottna yfir því, sem á henni væri.

Þegar vèr nú rèttilega yfirvegum þessi ord, siáum vèr, hans meining verdur, ad vèr eins hèr á jördu skulum, vera hans eptirmind. Vèr egum eins ad drottna yfir jördunni, eins og Gud yfir öllum hlutum, þad er ad segja: vèr egum þannig ad brúka alla þá ágjætu hluti, sem jördin framreidir, svo ad enn meira fagurt og gott megi af þeim framqvæmast, því ordid: ad drottna, segir hèr ecki annad enn ad haga því svo, ad allt fari vel og reglulega fram. Gódur Húsfadir er Kóngur í húsi sínu, þegar hann stjórnar þar svo, ad húsfreyja, börn og þjónustufólk, já! fènadurinn sjálfur lifi allt gladt og ánægt og hvørr einn gjørir þad honum ber. Húsfreyjan er þar, sem Drottníng, haldi hún öllu hreinu, og í gódri reglu og standi, beri umhyggju fyrir, ad hvørr fái þad, sem ber, med gódsamlegri umgengni fríska fólk upp og gjøri sèrhvørn gladann vid vinnu sína.

Sama er og, þegar þèr ræktid vel og umhyrdid jardir ydar, veitid vatni af túni og engjum, edur á tún og engjar, hvar of hardlendt er, og því fáid vidkomid, girdid og verjid tún, vandid þeim gódann og mikinn áburd, brjótid upp grjót úr slægjulandi, grædid á ný fúin flög, slèttid íllþýfi, sáid til kåls og fódur-urta, og ræktid hvørutveggja med alúd, búid mönnum og skepnum

 

um gott vidurværi og hybýli til, betrid og lagid allt hvad ábótavant finnst í búnadi ydar; uppalid börn ydar og hjú í Guds ótta og ydjusemi; ellegar gjörid eitthvad, sem ad sönnu vera kann alsæmilegt, enn þá betra, og margfaldid þannig Guds gáfur, þá drottnid þér, kjærir vinir! eptir dæmi Guds yfir jördunni, og leggid hana undir ydur, eins og allir hlutir eru Gudi undirgéfnir. Og því meira gott, sem nockurr framqvæmir med skynsemd og ydjusemi, því meiri og vegsamlegri er hans stjórnan, því betur líkist hann þarmed honum, þeim mikla Könganna Kóngi sjálfum.

En — Gud hefir og eginlegast svo lagad jördina, ad vér mannesskjur gétum med því móti helst yfir henni drottnad, ad vér æ meir og meir betrum og fullkomnum alla þá hluti, sem vér tékum oss fyrir hendur, þar med ordid sjálfir hyggnari, duglegri, ástúdlegri og líkari þeirri dýrdlegu eptirmind, sem oss er géfin til eptirbreytnis. Allirsaman vitid þér sjálfir, kjærir vinir! ad mögur eydi-jörd géfur litid og létt gras, og villi ávextir gjörast súrir. Völlurinn skal í tíma vel umhyrdast, egi hann ad bera gott gras; hvad eitt gjörast í hentuga tíd, vid húsastörf, heyskap, ferdalög, kaupskap, ródur, fénad og heimilis-annir, egi allt ad fara í lagi. Ull, til dæmis, þarf mikilla erfidis-muna med, egi úr henni ad verda vandadur fatnadur. Temji menn ecki vel únga hesta, og menti ecki börn sín vel, þegar á únga aldri, er ecki annars von, enn ad þau alla æfi verdi bædi ónýt og baldin.

Ydju-

Ydjusamur, gætinn og reglusastur húsfadir, getur alltaf betur og betur komid búskapi sínum í lag, taki hann þad fyrir sig, ad hugsa vandlega eptir ellu, og igrunda hvad áfátt sé.

Húsmódirin getur med varandi akúd og gódu gladsinni áunnid þad, ad madur hennar, børn og verkafólk sé æ betur og betur ánægt og vinni med gódri lyst. Eptir því, sem hún verdur hyggnari og reyndari, tekst henni betur ad fæda fólk sitt jafnvel med minna kostnadi, þegar hún íhugar, hvørsu ellu verdi sem fægilegast, best og sómasamlegast hagad. Børnin geta daglega aukid foreldrum sínum nýja gledi, þegar þau taka dagvarandi framførum í hlýdni, viljugleika og sidsemi. Heilar sveitir yrdu vissulega miklu audugri, blómlegri og betur ánægdar, ef svona færi nú fram á mørgum bæjum, og einn og sérhverr, eptir Postulans áminningu, kostgæfdi ad leggja af reidi, drambsemi, ágirnd, øfund, ofdrykkju og adra þesskonar lesti. Já! allt landid mundi fljótlega blómgast og umminndast til nýrrar Paradísar, ef allir þess innbúar, háir og lágir, vildu leitast vid ad fara dagbatnandi. Reynslan stadfestir þetta líka, þar ed vér sjáum, ad margt er nú miklu fegra og betra á jørdunni enn í forneldum. Hvad var í mørgum løndum annad ad sjá, eptir saganna vitni, fyri nockrum þúsund árum, enn alloidast óttalega skóga, fúa-flóa og foræði, þar sem nú lengi hafa verid ardsómustu korn-akrar og engi, já! álitlegir kaupstadir og stada-þorp í blómgun? ólm

villu-



villudýr bygdu þá þessa skugga- og vodalegu eydi-skóga, hvar saudfé og kýr nú eru á beit í makindum. Á þjódgøtum var enginn óhultur um líf sitt fyrir þeim, og seinna meir fyrir ræníngjum og stigamønnum. Allir bændur vóru fordum allvída aumkunarverdir þrælar, og húss-bóndi þeirra mátti drepa þá, og leggja undir sig eigur þeirra, án nockurrar ákjæru. Í landsplátsum lángt nordur um heim, sem fyrst bygdust fyri rúmum 900 árum, gengu lengi á mord og innbyrdis upphlaup, og sterkasti uppi-vødslu-madurinn þurfti engann annann rétt fyrir sig ad bera, enn egin laungun, efund eda ysirburdi sína, til ad drepa mann til fjár og úthella saklausu blódi. En um skynbragd og þeckingu manna á Gudi, náttúrunni, dygdum og kristinndóms skyldum, þarf og enn færra ad tala fyrir ydur. Gudi séu eilífar þackir, ad allt þetta er nú ordid miklu betra, nærfellt allstadar, og mun med hans stjórn og adstod æ verda betra og betra, svo ad enga manneskju þurfi loksins ad skorta naudsynlegt vidurværi, rétt og frelsi. Hværsu blómleg eru ecki mørg lønd ordin af prýdilegri og ardsamri jardar-rækt, sem nú marglaunar bóndans starf og ydjusemi! hværsu hefir ecki velmegun hmsra landa stórum aukist af betri peníngs-rækt og medferd! af uppeldi betri og ardsamari tegundar allshátt-ar peníngs og fénadar, sem sókt hefir verid og út-valin hin besta frá framandi løndum med mik-illi fyrirhøfn og kostnadi! Satt var þad ad

sønnu,

sönnu, ad ógætileg medferd og oflítil varúd med adkomu = fénadar innleidslu í fyrstu orsakadi sumstadar fjár=sýki og =fellir, en ogsvo vid þessari ógæsu fundu vitrir og skøruglegir landastjórnendur medøl og rád; sýkin yfirgaf løndin, skadinn hvarf og vard bættur á skømmum tíma, og þar ed þeir báru greind og stødugløndi og lands=elsku nóga til ad sigra alþýdu óvild og hleypidóma, med endurnýjudum tilraunum ens sama, er þeir vissu og þeckti í upphafi gott, þó fyrsta ófullkomin og veik tilraun mistækist, luckadist þeim á skømmum tíma, med naudsynlegri og sérlegri varúd og umhyggju í fyrstu, ad fylla heil lønd med tvøfaldt, já! margfaldt ardsamari penings= og fjár=tegundum, sem nú hafa stórum audgad þeirra innbúa, géfid nýtt lif þeirra útréttingum, kaupverdslun, handydnum, þegar ecki lengur var nú, sem fyrri, ad vinna fyrir gýg. Kaupskapar einráds bønd duttu med vaxandi upplýsíngu af mørgum løndum, og med þeim féck frelsi, ánægja og velmegan ogsvo nýtt lif og nýja blómgun. Med vægd og vorkun er manneskjum allvídast stjórnad; med gódfýsi og upplýsíngu reyna menn nú heldur til ad eyda þeirra brestum, bernsku og þverúd, enn ecki med ofbeldi sem ádur. Sjálf skynsemin hefir smámsaman øld eptir øld gengid áfram enn fleiri stig frá úngdóms fávitsku til hennar fullordnari aldurs og þroska. Menn hafa lært ad setja eldíngum og reidar=slegum løg, eptir hvørjum þau fari tilvísada leid, svo þau ecki grandi

E hús=

húsum, skipum eda mønnum, þegar vel er ágætt med skruggu-leidurum og skýlu ad búast vid þeirra adkomu. Kóngur vor hefir reist þarvid rikar skordur, ad pestir og næmar sóttir verdi ecki annarstadar ad innfluttar i landid, sé vandlega eptir hans fyrirsøgn þarum lifad. Og hvad hefir ecki læknis-kunst og náttúru- og heims-speki farid fram á sídustu øldum! margir sjúkdómar, sem ádur þóktu ólæknandi, verda nú fljótt og hægt læknadir. Bólusóttin er nú únglingum, børnum og fullordnum sett, og óteljandi manna líf þar-med frelsad. Ny og kroptug medøl uppfinnast vid greind og lánga reynslu, mót mørgum sjúk-dómi, og margfaldt hjálprædi í neyd. Hjátrú og forynjur hverfa, og vér tøkum med vaxandi greind og þeckingu, framar ad óttast ill eptirdæmi í heiminum og sjálfa oss, en imindadar grílur og skugga framlidinna. En, jafnvel sérhvad mót-drægt, sem oss í heiminum mætir, kærir vinir! er þad oss ecki sannur velgjørningur? lærum vér þá ecki af því, ad eckert er hér ófallvalt, og eck-ert sem fulltreysta má í voru lífi, nema gód sam-vitska ein? Hún megnar ad gjøra oss ánægda og glada midt í hørmúngunum; hún bendir oss, ad brúka þad senda mótdræga tilfelli til ad leida skynsemi vora til greinds eptirþánka og rádsleg-unar um hid likflegasta hjálprædismedal í neyd. Med þessum eptirþánka verdum vér þannig dag-lega hyggnari og lærum smámsaman ad gjøra allt betur og betur. Hjálpi þannig hverr ødrum, og hverr, sem æruseom og þacklát tilfinning nockur

er

er hjá, virdi sem ber veitt fulltíngi og hjálpi aptur á mót í hverju, sem hann má og megnar, þá uppqviknar ást og gódvild sameginlega í manna hiertum, en þau betrast dag frá degi. Og þetta fkédur því framar, sem vér lærum ad þeckja fleira, reynum þess not og brúkum hlutina til sjálfra vorra og annara nota.

Af ellu framansegdu, sjáid þér nú augljóslega, kiærir vinir! ad vor gódi Gud hefir dásamlega tilbúid allt og hagad svo ellu á jerdunni, ad vér manneskiur ávallt kostgiæfa skyldum ad gjera allt betur og betur, og sjálfir verda betri, svo ad vér lifad gætum ánægdu lífi í heiminum. En fyrst þessi er rétta adferdin, til þess ad vér, daudlegar mannsképnur, ordid gætum Guds eptirmind, sjáum vér eins berlega, ad til þess hefir hann sett oss á jerdina, ad sálir vorar skyldu hér líkast sér med þessu en engu edru móti. Ad vér æskulum breyta betur og betur og verda betri, er þess-vegna tilgángur Guds med ad géfa oss bústad á jerdunni, uns hann vid vorrar æfilok med daudanum leidir oss heim til eilifrar ánægju á himnum.

O! ad eg, mínir ástkiæru vinir og tilheyrendur! ecki þyrfti nú annars vid, enn ad lykta þessar hugleidíngar med hjartanlegri ósk þeirri, ad vér, og hverr madur á allri jerdunni, vildum nú einlæglega uppfylla þenna Guds tilgáng, og jafnan ástunda ad verda honum líkari! En — allt of margir finnast þó, því midur! sem ennþá eru ofurlángt frá þessari lucku. Einn hugjar

um eckért annad, enn að draga saman fallvøllt auðæfi. Annar einkanlegast um að ala líkama sinn í allskonar óhófi og sæld, lifa í stjórnlausum og skynlausum vellystum, ellegar hvørsu hann mettað fái hofmóð og hégóma-girnd sína. Margir heingimænast, slóra og slabba yðjulausir dag eptir dag án þess að ígrunda, hvað þeir eginlega skuli og vilji aðhafast í veröldinni, og til hvørs þér séu í henni við lýði, og að Guð muni þó einhvørntíma reikning heimta af oss fyrir brúkun þeirra ára, daga og tíma, hvørra hann unnti oss hér. Og skal nú enginn á meðal vor, sem hér erum safnaðir, þeckja neitt af þessu að vera brest sinn? æ! vér erum allir syndugir og hofum skort á þeirri hrósun, sem vér ættum að hafa fyrir Guði og samvitsku vorri; sumir meiri, sumir minni. En, viss er eg um það, mínir vinir! að hjá mørgum hefir þetta ørsakast einúngis af því, að þeir ecki hafa réttilega yfirvegað, til hvørs vér eginlega erum af Guði skapaðir. En þaramóti nú, þegar vér svo auglióst sjáum það og skiljum, vona eg að vér allir hegðum oss með alúð þareptir. Já! trúið mér, gømlum gráhærðum manni; eg hefi um æfidaga mína afborið margt og mikið andstreymi, eins og sjálfir þér vitið, en, Guði sé lof! eg hefi samt sem áður alltaf verið lund-hress. Viljið þér orsøkina þartil vita, er hún engin ønnur enn sú: að eg sífeldt hefi hagað mér, eins og eg nú hefi kennt yður. Allt sem eg hefi tekið mér fyrir hendur, hefi eg leitast við að gjøra, sem best. Eg hefi

kostað

kostad kapps um, sífeldt ad læra og reyna meira; eg hefi leitast vid ad leggja af hvörn brestinn eptir annann, og vísvitandi ecki forsómad hentug tækifæri til ad útrétta eitthvad gott. Eg hefi leitad minnar hellstu gledi í því ad gagnast ödrum sem mest eg gat, med minni lítilfjörlegu þeckíngu og kröptum; eg hefi þarhjá haft þad fulltraust til Guds, ad hann mundi leggja sína blessun til alls míns fyrirtækis, og framar álíta minn góda vilja enn hans veiku framqvæmd. Med þessu er eg svo lángt kominn, ad eg án ótta get nú litid tilbaka til míns umlidna lífs, og, þegar minn tími kémur, dáid med gladri og gódri von.

Hvörr sá medal ydar, ástkjæru vinir! sem híngad til ennþá ecki hefir þenkt og hagad sér þanninig, byrji þó loksins med þad nú þegar í dag! hvörsu skjótt útrennur ecki vor stutta æfi og þareptir kémur óendanleg eilífd! Reynid því til þessa og leggid í qvöld nidur med sjálfum ydur allt, hvad þér á morgun viljid adhafast, og hvörsu þér fáid þad sem allrabest framqvæmt; svo þad megi þóknast Gudi og mönnum. Ellegar spyrjid sjálfa ydur á morgun snemma, þegar þér vaknid: hvad áttú þad í dag ad ydja, sem þú verdur hyggnari og betri af? af hvörjum brestum þarftú ennþá ad venja þig? hvörnig áttú í búskjórn þinni ad haga öllu, sem best? hvörjum getur þú verid til vilja eda ánægju og med hvörju hellst móti í dag? hvad gætir þú hér eda þar talad eda gjört til ad leidrétta og betra konu þína, börn, eda vin þinn? hvörsu í dag fullnægt skyldum þínum vid ná-

 

granna og yfirbodna? gjørid sjálfum ydur þessar og þvíumlíkar spurníngar og ígrundid vandlega, hvørsú þér fáid øllu sem best hagad. Hugsid svo annad qvøld úti, hvørsu ydur hefir í øllu farnast og rádslagid, hvad nærsta dag gjøra skuli, og hvørninn þá enn betur ad fara. Haldid þanninn sífeldt áfram og bidjid Gud ydugglega um fulltíngi sitt. Hann mun vissulega bænheyra ydur. Hann hefir skapad ydur til þess, ad þér jafnan verda skyldud betri, og gjøra allt betur og betur. Hann mun og vissulega fullkomna það góda verk, sem hann hjá ydur uppbyrjad hefir, ef þér ad eins ecki látid ydar vilja og vidleitni ávanta. En falli þad einhvørjum ydar ofspúngt ellegar þid hafid ecki rétt skilid meiníngu mína, komid þá til mín, eg vil gjarnan ráda og hjálpa ydur, sem best eg veit og gét, svo lengi sem eg lifi. Hvørsu feginn mundi eg óska ad sjá ydur alla, minir vinir! svo gudhrædda og ánægda, ad eg í dag eda á morgun, mætti med gledi halla útaf í grøfina mínu gráhærda høfdi, hughraustur gánga fram fyrir Guds dómstól og segja: Hérna eru þeir, Herra! sem þú gafst mér; engum þeirra hefi eg glatad!

Æ! miskunsami, himneski Fadir! veittu þínum gamla þjóni ennþá þessa gledi á daudastundu hans! Amen!

---

Lagid er: Hvørr veit hvad færri'er æfi endi.
Leid þú oss sjálfur, ljúfi Herra!
Líkíngu þína'ad nálgast hjer,

Svo gódir, betri, vísir vera,
Og vanda ráð allt stundum vjer.
Send oss æ meira ljós og lid
Lífs veginn þinn ad halda vid!

## XIV. Kapituli.

### Hvørsu sá úngi Hra. Mildberg ferdadist burt, og hvad hann mælti fyrir ádur enn hann fór.

Daginn eptir Páska fór sá úngi Hra. Mildberg heiman ad, og med honum hans trúi Þénari Hjálmar, sem med honum var uppalinn. Nærfellt allir sveitar-menn søfnudust saman til ad sjá hann þegar burtfæri. Margir grétu sart út af því og allir bádu Gud ad leida farsællega þann únga Herra, og gefa þeim hann frískann og ánægdann heim aptur, því allir vonudu ad hann mundi verda þeim ágætur húsbóndi. Sóknar Oldúngarnir og Medhjálparar rødudu sér vid dyrnar, fyrir hvørjum hestar hans stódu sødladir, og þegar hann kom út, tók Hreppstjóri Grómundur til orda og sagdi: ad hverr madur í sveitinni óskadi þeim góda Herra mikillar lucku og blessunar til ferdarinnar, og ad þeir vildu, þegar bedid væri í kirkju-bæninni fyrir Yfirmønnum, jafnan bæta þessu vid: "Gud sendi oss vorn "elskulega, góda Herra heilbrygdann og farsælann heim aptur!" hann þackadi þeim vingjarnlega, rétti þeim gømlu mønnum, sem nærstir honum stódu, hønd sína og sagdi: Gud vardveiti



ydur, gott fólk! frá allri ólucku og blessi ydur! eg yfirgéf ydur nú, en vona senn ad koma til ydar aftur, og þá skal eg, med Guds hjálp, gjøra allt sem í mínu valdi stendur til ad létta undir naud þeirra, sem adþreyngdir vera kynnu. Haldid áfram ad elska mig og þegdid ydur jafnan eins og gódum og rádvøndum mønnum ber, svo ad eg líka géti elskad ydur! minnist ætíd þess, er hann Herra Andrés kénndi ydur í gjær, ad þér til þess erud settir á jørdina, ad þér bera skyldud eptirmind og líkingu ósýnilegs Guds, sem þar í einkanlega er innifalin, ad þér æ kappkostid, ad gjøra allt betur og betur og verda sjálfir betri, nefnilega upplýstari, greindari og dygdugri menn. Látid því eckért tækifæri hjálída til ad þyggja góda uppfrædingu af þeim er betur vita enn þér, og þér skulid sanna, ad því meiri alúd þér leggid á ad rífa ydur lausa úr gamallar hjátrúar, ónýtrar og skadlegrar lands venju, þánkaleysis og ómennsku fjøtrum, en þarámót audgid ydar sálir med nytsamri þeckingu, yfirvegun og eigin-reynslu alls sem gagnlegt og møgulegt ydur virdast mætti, til saklausrar ánægju, í svalldryckju og ómennsku útslángurs stad, og til heilla ydur og heimilum ydar, skal ómakid umbunast ydur med innvortis ánægju og forsmeck himneskrar ununar, undir eins og þad leggur ydur medølin í hendur og kénnir ad þeckja þau til ydar tímanlegu farsældar, til ríkdóms í allri rádvendni, til heidurs og til áfiskældar. Hérna, sagdi hann framvegis, er bladkorn, Hrómundur sæll! sem

sem eg bid þig lesa hinum, fyrst ad flestallir sveitar-menn eru hér nálægir. Allir þøgdu og hlustudu á med athygli medan Hrómundur las þad, sem nú fylgir:

„Pared eg med Guds adstod áforma ferd utanlands „eptir fødur míns sæla fyrirmælum, og verd heiman „ad nöckur ár, er sú ósk mín, ad mínir kjæru landset-„ar hjer í Sælingsdals sókn og á ødrum fasteignum „mínum, gleymi mjer ecki á medan, heldur ydugleaa „minnast mín og míns vilja, allt-eins og væri eg þeim „nálægur heima. Því heiti eg hjermed nockrum verd-„launum þeim, er best fara ad rádi sínu og eptirskrifud-„um vilja mínum, og skulu þau greiduglega útilátast, „þegar eg, l. G. er heim aptur kominn.

1.) „Heiti eg 50rdm. þeim hjónum, sem lifa í bestri „ásitemd og best ala upp børn sín til sidprýdis og „rádvendnis, láta þau best menta í bændum þarf-„legum hyggindum, og allri, úti- og inni-vinnu „bænda.

2.) „50rdm. þeim bónda, sem nú er skuldum og bág-„indum vafinn, en med ydn og sparsemi kjemst „á medan úr skuldum, rettir vel vid og grædir „mestar eigur án ágirndar og rángláts fjedráttar.

3.) „50rdm. Þeim yngismanni, sem slíngvastur og at„orku-bestur finnst til lands og sjóar, nemur vel „alla jardar- og kálgarda-ræktun og er þarhjá „hinn sidsamasti og rádvandasti pilltur.

4.) „50rdm. Þeirri stúlku, sem best skynbragd og mest„ann dugnad sýnir við húss-stjórn, matar-medferd „og allann hagnad hans, peníngs-rækt og alla „qvennfólks vinnu úti og inni, í einu ordi: vid „allt, sem heimta má af duglegri húsmódur, en „hefir þarhjá þad almenníngs ord, ad hún se hin „sidsamasta en jafnframt vingjarnlegasta og kurt„eysasta sóknar-stúlka. Auk þessara 50rdla. skal „hún líka á giptíngar-degi sínum fá bestu kúna „mína og gódann heiman-mund frá mjer, því,— „slík munu fljódin færri, sem frábær stúlkan sú.

5.) „25rdm. skal skipta upp á milli 5 skóla-pillta í „Barna-skólanum, sem best kunna ad lesa og „reglulegast, skrifa, reikna og gjøra grein á hvørju „því, er nýjasta Bænda-Praktíka kjennir, hvørja „eg hefi gefid skólanum, sem lestrar- og frædi-bók.

6.) „25rdm. skal og skipta upp á milli 5 stúlkubarna „í skólanum, sem best kunna hid sama og ann„ad, sem kjennt er í skólanum.

7.) „Ars-landskuld af ábýli sínu skal hvørr sá bóndi „hafa á mínum eignum, sem í fjærveru minni

„leit-

„leitar sér upp áður óþeckta móteckju í landar„eign sinni, hagnýtir sér hana til eldividar, en „leggur öldúngis af bædi skógar-ferdir til eldi„vidar, ef mögulegt er, og allskonar klóníngs og „tads þurkun til elds-neytis; en ver þarámót öll„um þeim áburdi, sem hann fengid getur, til „ræktar ábýlis síns, sem haganlegast. Hvørr „sem med bestri umhyggju og notasemi í þessu, „og med inni-legu nautpeníngs árid um kríng til „áburdar-auka, mest betrar tún sitt og slægjulønd, „eda kálgarda ásamt, skal auk þessa fá 25rdla. „verdlaun.

„Þegar eg farsællega er aptur heimkominn, l. G. „skulu framan-heitin verdlaun afhendast þeim, sem eg, „eptir náqvæma ransókn, finn þeirra verdugasta."

Mildberg.

---

Þegar Hrómundur hafdi útlesid kalladi Herra Mildberg upp og sagdi: Verid nú sælir, gódir menn! og stè sídan á hest sinn, en Presturinn Hra. Andrès fylgdi honum á veg. Fólkid stód ordlaust, uns hann reid úr hladinu, en þá rèttu bædi gamlir og úngir upp hendurnar og hrópudu: Gud veri med Ydur, gódi Herra! allur hópurinn hljóp sídan á eptir honum út fyrir



ir þorpid og horfdi eptir medan til hans sást. Af heimleidinni skrofudu þeir mikid um þenna góda Herra, sem ecki æskti hèr annars af þeim, enn ad hvorr einn fullnægdi skyldum sínum og stundadi gagn sitt, og bydi fólki þó kaup til þessa. Þad mun vídast fáheyrt, sagdi einn; annar ansadi til: hann breytir í þessu eptir Gudi, sem gèfur oss meira, enn vèr verdskuldum, og blessar oss þarmed, þegar vèr vel og skynsamlega förum ad rádi voru; og eins, sagdi hinn þridji, þegar vèr erum fúsir ødrum til hjálpar, eins og Presturinn kénndi ockur svo fallega í gjær. Almenn gledi var út af þessu manna á milli. Hrómundur skrifadi verdlauna skjalid upp og festi á skólaog kirkju-dyrnar, svo hvorr einn gæti lesid. Húsfedur, húsmædur, yngis-menn-, stúlkur og børn, klæadi flest allt eptir verdlaununum, og hugdu all-møgulegt sèr ad ødlast þau, á medan enginn íhugadi, ad þá yrdi hvorr einn nockud til ad vinna og verdskulda þau, en þó gætu fæst af þeim fengid fleiri enn eitt. Þess vegna søgdu þeir óráðvøndu brádlega sín á milli og vid sjálfa sig: "eg fæ "aldrei þá 50rdli., því skal eg þá eyda ómaki "til ad verdskulda þá?" þó mundi fjøldinn til þess, er Presturinn hafdi kénnt, ad manneskjan væri eginlega skøpud til þess ad verda æ betri

og

og fullkomnari, og þenkti þvi þannin: þó eg ecki fái þau fyrirheitnu verdlaun, hefi eg samt mest gagnid af því sjálfur ad hlýdnast Guds vilja, þegar eg kostgæfi ad verda betri, byggnari og gjøra allt betur, lagfæri og betra búskaparformu mitt, jardar- og penings-rækt, líka í ásiseum bædi heima og út í frá og el vel upp born míñ. Yngis-menn og -meyjar søgdu: ad þegar þau breyttu, sem skyldi til þess ad vinna til verdlaunâ, en færu þeirra þó á mis, lærdu þau samt vid þessa kostgæfni, hvørsu þau vel og ærusamlega fengju framkomist í heiminum. Og þared fólk, sem ádur er sagt fregnad hafdi, ad í Bænda-Praktíka, sem Hra. Mildberg hafdi gefid skólanum væru mørg gód og almúga þénanleg rád ad finna í margsháttar tilfellum lífsins, bad þad Prestinn á ný bædi ad útlista þeim enn framar, ef eitthvad í henni þúngskilid fyrirkjæmi, og einkum ad útvega sér bókina til láns. Hann hét þeim fúslega hvørutveggju, og þegar bókin, eptir rádstøfun Herra Mildbergs, kom út á prent, keypti hann handa sókn sinni 10 stycki og sagdi: á medan þid ecki þeckid hana rétt, gétid þid, gódir menn! látid yckur nægja ad leggja saman 7 eda 8 til ad eignast eitt stycki af þessum 10, og þad sídan

gánga

 

gánga um til vekuleſtra yckar á milli, í ſtad-inn rímna og markſauſs þvættíngs, ſem qvæda-menn og þeſsháttar leti-magar hreppa-kéllíngaſt med bæ frá bæ og þylja yckur fyrir gott ſædi og þócknun, en eg vona og óſka, ad bókin kynniſt og gedjiſt yckur ſvo vel brádlega, ad eg vid húſsvitjanir mínar finni hana framvegis í hverju húſi.

Bændur lögdu nú ſaman ad kaupa bók-ina, láſu hana ſídan annadhvert ſjálfir, eda konur þeirra og börn til ſkipta, hátt fyrir öll-um, ellegar fengu géſti og nábúa til þeſs á vetrar-qvöldum; rædduſt ſídan vid um hvad eina ad ſamfundum og bádu Preſt ſkéra úr vafa-málum, þegar öllum leitſt ecki ſama, eda eitthvad efaſamt og þúngſkilid þókti fyrirkoma. Margir vóru og ſvo ſkynſamir, ad breyta ept-ir bókarinnar heilrædum og fundu gód og mik-il not þeirra. Hér fylgir nú næſt eptir Bænda-Praktíka ſjálf.



# Nýjasta
# Bænda-Praktika,

sem kénnir:

hvørsu menn fái ánægdir lifad, ordid ríkari med sóma og hjálpad sjálfum sér og ødrum í all-mørgum neydar-tilfellum.

Allt er hér í sannad med trúverdugum søgum og eptir-dæmium og sumstadar prýdt med útskornu málverki.

útgéfin af
Almúgans einlægum vini.

Öll þessi bók með alúð er
Fyri' únga' og gamla løguð hjer.
Hvørr hana les og hennar ráðum
Hlýðir trúlega, øðlast bráðum
Heilsu-bót, greind og hressa lund,
Heiður, velmegun lífs um stund.
Hún má og andlegð mørgum veita
Mønnum, sem eptir henni breyta.
Í henni líka úngir fá
Utskorin nockur málverk sjá.
Bókina notið, Konur! Kallar!
Krýni Guðs blessan yðn gjørvalla!

